ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST!



# VERKALÝÐSBLAÐIÐ



MÁLGAGN EININGARSAMTAKA KOMMÚNISTA (MARX-LENÍNISTA)

2. ÁRG. 6. og 7. Tbl. 1976

*100 Kr.*

"VELFERÐARRÍKIÐ" LEIÐIR ATVINNULEYSI YFIR VERKAFÓLK. ATVINNUÁSTANDIÐ FER VERSNANDI MEÐ HVERRI VIKU.

# ATVINNULEYSI



FRÁ BORÐEYRARDEILDINNI 1934. KREPPAN MAGNAÐI ATVINNULEYSI OG ATVINNUREKENDUR VÖRÐU SJÓÐI SÍNA MEÐ KYLFUVÆDDU HVÍTLIÐAHYSKI. VERKAFÓLK BARÐIST FYRIR LÍFSBJÖRG OG VINNU. FORUSTA KOMMÚNISTA OG SAMHUGUR STÉTTARINNAR FÆRÐI HENNI MARGAN SIGURINN. NÚ HARÐNAR KREPPAN ENN Á NÝ.

Nú er ljóst að kreppueinkenna er farið að gæta svo um munar meðal vinnandi fólks. Laun hafa hækkað um 20 - 30% á síðustu 16 mán. en verðbólgan hefur verið margfalt meiri. Síðustu og ósvífnustu verðhækkanirnar á matvöru, þjónustu og orku hafa fyrir löngu náð vísitölunni upp fyrir "rauða strikið" samstarfsmannanna úr ASÍ og Vinnuveitendasambandinu. En úr herbúðum ASÍ heyrast bara "varnaðarorð" til atvinnurekenda - nú nálgist vísitalan "rauða strikið" - en ekkert herútboð til verkafólks og alþýðu og þaðan af síður skipulagning baráttu. Lífskjör fólks versna óðum og vinna minnkar í mörgum iðngreinum og starfsgreinum yfirleitt. ASÍ-forystan ber engu að síður ábyrgð á þessum árásum á vinnandi fólk en stórauðvaldið og atvinnurekendur. Hún er jafn eindreginn andstæðingur okkar og burgeisarnir. Samfara minni kaupgetu, gægist vofa atvinnuleysisins úr gáttum. Konur í fata- og fiskiðnaði fá uppsagnarmiða fyrstar allra, síðan iðnverkafólk. Skólafólk er látið hrekjast atvinnulaust um götur, en fyrstu merki landflótta eru augljós. Á sama tíma eykst velta margra fyrirtækja og allir helstu auðhringir á borð við EIMSKIP, FLUGLEIÐIR og SÍS stórjuku fjárfestingar og gróða sinn á árinu.

Þetta hefst með kaupráninu og alls kyns "sparnaðaraðgerðum." Ein sú algengasta er sú að reka vinnufólkið á dyr, í þeim tilgangi að "forða fyrirtækinu frá gjaldþroti." Og þegar svo helsta orsök kreppunnar er einmitt arðránið með offramleiðslu og lágu kaupi, afhjúpa uppsagnir kúgun auðvaldsins betur en margt annað.

En hvað er hægt að gera?

ASÍ-forystan og allir borgaralegu stjórnmálaflokkarnir, að meðtöldu Alþýðubandalaginu, heimta að verkafólk "skilji vanda þjóðarbúsins." Þessi samvinnuöfl með stéttarandstæðingnum segja að "allir verði að bera hluta af byrðunum." Þeirra svar er: engin barátta, heldur stuðningur við íslenska "atvinnuvegi" - þeir styðja núverandi kauprånsstefnu, ef atvinna helst - eins og sagt er. Og til að fela innihald stefnunnar ystan (á þing- og nefndakaupi) aukinn ríkisrekstur sem "sósíalisma". Ný "vinstri" stjórn er allra meina bót hjá þeim. En hvorki stéttasamvinnufólkið eða atvinnurekendur eru almáttugir. Smáverkföll, aðgerðir 1. maí, aukið fylgi marx-lenínista og hundsun á skipunum ASÍ-forystunnar, eru merki vaxandi andstöðu.

Vinnandi fólk verður að skipuleggja andstöðulið í stéttarfélögunum, hefja pólitískt starf og skipuleggja baráttu í andstöðu við stéttasamvinnu - gegn uppsögnum og atvinnuleysi. Félagar þess fólks, sem verður fyrst fyrir barðinu á þessari "hagræðingu" atvinnurekenda geta vissulega skipulagt mótmælaaðgerðir og vinnustöðvanir á vinnustöðum. Reynslan sýnir, að baráttan og dugmikil forysta færir sigur. Það er fjöldinn sjálfur, sem býr yfir úrslitaflinu.

SKIPULEGGJUM BARÁTTU GEGN ATVINNULEYSI OG UPPSÖGNUM!

# Landssala

AFTURHALDSRÍKISSTJÓRN GEIRS HALLGRÍMSSONAR OG ÓLAFS JÓHANNESSONAR LÆTUR EKKERT TÆKIFÆRI ÚR GREIPUM RENNA TIL AÐ SELJA LANDIÐ OKKAR OG AUÐÆFI ÞESS. HVER EINOKUNARAUÐHRINGURINN Á FÆTUR ÖÐRUM ER BOÐINN VELKOMINN AÐ SETJA UPP STÓRIÐJU HÉRLENDIS. 200 MÍLNA FISKVEIÐILÖGSAGAN ER MEÐ SAMNINGUM VIÐ BRESKT OG V-ÞÝSKT EINOKUNARAUÐVALD GERÐ AÐ PAPPÍRSPLAGGI EINU SAMAN. ÍSLENSKT OG ERLENT AUÐVALD FÆR AÐ HALDA ÁFRAM RÁNYRKJU SINNI Á FISKISTOFNUNUM OG ÖÐRUM AUÐÆFUM LANDSINS. ÍSLENSKA EINOKUNARAUÐVALDIÐ OG RÍKISSTJÓRN ÞESS KEMUR KEMUR ÁR SINNI VEL FYRIR BORÐ - ÞAÐ HIRÐIR STÓRGRÓÐA AF LANDSÖLU OG EIGIN RÁNYRKJU. RÁÐIST ER AÐ ALÞÝÐUNNI MEÐ STÓRFELLDARA KAUPRÁNI EN NOKKRU SINNI OG TILVERUGRUNDVELLI HENNAR ALVARLEGA ÓGNAÐ MEÐ GEGNDARLAUSRI RÁNYRKJU.

# ELKEM í Hvalfirði

Sjá bls. 2

INNI Í BLAÐINU:



## Slippstöðin Akureyri:

# VERKFALL IÐNNEMA

Í APRÍLEINTAKI VERKALÝÐSBLAÐSINS VAR GETIÐ BARÁTTU IÐNEMA Í SLIPPSTÖÐINNI Á AKUREYRI FYRIR HÆRRA KAUPI. HAFÐI ÞÁ ALLNOKKUÐ ÁUNNIST MEÐ ÁKVEÐINNI KRÖFUGERÐ OG ALMENNRI SAMSTÖÐU UM HANA.

Það hafði náðst rúmur helmingur þeirra hækkana er krafist var umfram það kaup er atvinnurekandinn bauð að fyrra bragði. En iðnnemar skoðuðu kröfur sínar sem hógværar og ásettu sér að hafa þær fram í heild. Er Gunnar Ragnarsson forstjóri lýsti yfir, að hann hefði sagt sitt síðasta orð, en nemar nokkrum sinnum hótað að grípa til aðgerða lögðu þeir svo niður vinnu á hádegi mánudag 27apríl. Andstaða þeirra var þá nærri alger og var Slippstöðin h/f vængbrotin og afkastalítil þann dag svo ekki sé meira sagt. Forstjórinn hélt ræðu yfir nemunum en þeir aftur á móti héldu hópinn og sömdu dreifibréf og eins fréttatilkynningu er hljóðaði svo:

FRÉTTATILKYNNING
Iðnnemar í Slippstöðinni leggja niður vinnu.

Undanfarin hálfan annan mánuð höfum við iðnnemar í Slippstöðinni staðið í málaþófi út af kjörum okkar. Ástæðan er sú að samningarnir I.N.S.I. frá mars sl. tákna stórfellda kjaraskerðingu (tvö fyrstu árin beina krónulækkun!). Þessum samningi var samhljóða hafnað á almennum fundi iðnema, enda hafði I.N.S.-I. ekki aflað sér neins samningsumboðs iðnemafélagsins hér. Slippstöðin bauð þá kjör hliðstæð þeim sem áður höfðu verið, en við iðnnemar settum fram kröfur, sem þýddu ca. 5% hærra kaup en þetta tilboð gaf. Er sýnt var, að við myndum halda kröfum okkar til streitu brást forstjórinn hinn versti við og hótaði þeim mönnum uppsögn, er ekki mættu til vinnu að hálfs dags umhugsunarfresti liðnum.

Notuðu iðnnemar þann hálfa dag til að rölta um svæðið í hóp og styrkja sinn málstað meðal vinnufélaganna. Við höfum lýst því yfir, að aðgerðunum ljúki ekki fyrr en sigur vinnst.

Iðnnemar í Slippstöðinni h/f Akureyri.

Forstjórinn notaði sem sagt hina vinsælu aðferð að "deila og drottna" með því að hóta hinum "óhlýðnu" öllu illu, en þeim er skærust úr leik og mættu næsta morgun lofaði hann fyrirgefningu. Í viðræðum nemana við sveinana þennan dag var ljóst að samúð þeirra með aðgerðinni var takmörkuð.

Samhljóða var samþykkt að mæta en hefja ekki vinnu. Iðnemahópurinn var baráttuglaður þennan dag en yfirmennirnir æstir og ráðalausir. Næsta morgun hélt verkfallið áfram. Þó höfðu hótanir forstjórans haft viss áhrif. Nokkrir beygðu sig þó ekki fyrir meirihlutanum og fóru einir sér í það að vinna en "fara sér hægt". Er stuðningur sveina jókst ekki en sundrung nemanna varð meiri var aðgerðin dæmd. Eftir vinnutíma kallaði forstjóri saman á fund og gaf mönnum nýjan frest til morguns til að sjá að sér. Á miðvikudagsmorgun mættu iðnemar til vinnu. Jafnframt dreifðu þeir yfirlýsingu, þar sem segir m.a.:

"Aðgerð iðnnema er leyst upp og töpuð. Ljóst var seinnipartinn í gær, að samstaðan hafði veikst svo að grundvöllur áframhaldandi aðgerða var brostinn.

"Réttur" okkar er annars sá, að þiggja krónulækkanir frá samningum INSÍ (meðallaun ca. 56.000 krónur á mánuði miðað við unninn tíma - samið var án fyrirvara), eða þiggja það, sem atvinnurekandinn skammtar af "manngæsku" sinni einni.

Útkoman og lærdómar:

Með góðri samstöðu um kröfugerð og hótun um aðgerðir náðist u.þ.b. helmingur af kröfum okkar fram. En af hverju mistókst sjálf aðgerðin og hvaða lærdóm getum við dregið af því?

a) Innri sundrung í liði iðnnema.

b) Í baráttunni sýndu sveinar málstað okkar afar takmarkaðan skilning (með heiðarlegum undantekningum þó), en áróðri forstjórans óhóflega mikinn.

c) Aðstaða okkar iðnnema, sem og annars verkafólks, til að brjóta ísinn, er erfið þegar hefð er komin á að afgreiða öll kjaramál í embættismannabákni í Reyjkavík.

Við iðnemar þurfum að setja kröfur okkar hærra og efla baráttu okkar fyrir þeim. Látum ekki "yfirboðarana" sundra okkur"!!!

<u>Þörf aðgerð og góð reynsla.</u>

Aðgerð iðnema var þeim dýrmæt reynsla. Hún sýndi fram á nauðsyn samstöðunnar og það, að engin linkind dugir.

Aðgerðin var tákn um vaxandi óánægju iðnnema með sín eymdarkjör. Kjör iðnema almennt hafa þó versnað mun meir en

frh. bls. 2

ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST !
VERKALÝÐSBLAÐIÐ
MÁLGAGN EININGARSAMTAKA KOMMÚNISTA (MARX-LENÍNISTA)
RITSTJ. OG ÁBM.ALBERT EINARSSON.

# BARÁTTA EÐA UPPGJÖF

EIK(m-l) fordæmir samninga þá sem íslenska ríkisstjórnin og bresku heimsvaldasinnarnir gerðu sín í milli um veiðar Bresta innan 200 mílna fiskveiðilögsögu Íslands.

Samningarnir hljóða uppá áframhaldandi veiðar Breta þegar ljóst er að um eins mánaðar veiðar fylla endanlega kvótann sem íslenskir fiskifræðingar töldu leyfilegt að taka af íslenskum miðum allt árið 1976.

## LEIÐARI

Með íslenskri rányrkju og breskum veiðum er því ljóst að rányrkja á Íslandsmiðum vex fremur en minnkar.
Gegn þessu standa kröfur verkalýðs og vinnandi alþýðu:

- að varinn sé réttur Íslands til nýtingar eigin náttúruauðlinda og honum beitt í þágu alþýðu.
- raunverulega fiskverndun og baráttu gegn rányrkju erlendra stórvelda jafnt sem rányrkju íslenskrar stórútgerðar.
- að engir samningar um veiðiheimildir séu gerðir við erlend ríki og full yfirráð verði yfir 200 mílum í verki.
- barist sé fyrir fiskverndun - gegn rányrkju erlendra stórvelda jafnt sem rányrkju ísl. stórútgerðar.

En engin ríkisstjórn getur barist fyrir þessum kröfum - aðeins alþýðufjöldinn.
EIK(m-l) hefur gert margar tilraunir til skipulagningar fjöldabaráttu og stofnunar virkrar baráttufylkingar í þessu máli. Það starf mun halda áfram eftir svikasamningana. Baráttan er rétt hafin.

Meginorsök stefnu ísl. ríkisstjórnarinnar og húsbóndanna úr hópi einokunarauðvaldsins er að finna í gróðasókn auðvaldsins og útþenslu þess. Ríkisstjórnin vildi að bókun 6 í tollasamningi Efnahagsbandalagsins og Íslands tæki gildi. Samningurinn hljóðar upp á vænleg kjör fyrir útflutningsaðila, svo sem auðhringana SH, SÍS og íslenska ríkisauðvaldið. Bókun 6 átti ekki að taka gildi fyrr en "viðunandi"lausn fengist í fiskveiðideilunni. Síðan ætlar EBE-auðvaldið að gæta hagsmuna breskra stéttarbræðra við nýja samninga um næstu áramót. Þannig seldi íslenskt auðvald hluta af lifibrauði alþýðu fyrir hag arðræningjanna og útflutningsbraskaranna. Að auki er svo borgarastéttin og ríkisvaldið lafhrætt við vaxandi baráttu og andstöðu verkalýðs og vinnandi alþýðu. Vaxandi andstaða við NATO og bandaríska herinn er þeim þyrnir í augum. Samningana varð því að gera til að bjarga því sem bjargað varð-um stund. Allar blekkingar um "sigur Íslendinga" og viðurkenningu Breta á 200 mílna - lögsögunni hrökkva þó skammt.

Stefna stjórnarandstöðuflokkannar er stefna uppgjafar og þingsalagaspurs. Þeir hafa kæft allar fjöldaskipulagningu og baráttu í pappírs og nefndarfargani. Þeir hafa dregið fólk á asnaeyrum, hvatt til andstöðu en setið aðgerðarlausir með hrópum um nýja "vinstri" stjórn. En sú síðasta slíka stóð einmitt í samningamakki við Breta.

Útifundurinn á Lækjartorgi 2.júní, sýndi ljóslega að fjöldinn hefur yfirgefið sjálfskipaða alþýðuvinina ,enda fundurinn haldinn eftir samningsgerð. Allt stórskotalið stéttasamvinnunnar gat dregið 2000-3000 manns á Lækjartorg. Þeim mun fækka.
EIK(m-l) hélt innifund 29.maí. Þar mættu um 40-50 manns. Undirbúningsnefnd að stofnun liðsmannasamtaka í landhelgismálinu varð til á þessum fundi og hélt annan fund 3.júní, þar sem enn bættist við fólk. Þetta er vísir að fjöldabaráttunni. Er þess skammt að bíða að undirbúningi ljúki - þá sigra framsæknir einstaklingar andstæðinginn með samfylkingu sinni. Styðjið fjöldahreyfinguna.

Baráttan á hafréttarráðstefnunni hefur afhjúpað drottnunarstefnu heimsveldanna og gróðakapphlaup. Risaveldin, Bandaríkin og Sovétríkin, eru andstæð baráttu okkar - óvinir sjálfræðis, frelsis og sjálfsbjargar. Þau sækjast eftir yfirráðum yfir hafinu, rányrkju náttúruauðæfa, arðráni á alþýðu og beita aðferðum styrjalda og undirróðurs. Barátta okkar fyrir 200 mílna fiskveiðilögsögu og landhelgi er því barátta gegn íslenskri borgarastétt gegn breskum heimsvaldasinnum og gegn risaveldunum.

EIK(m-l) leggja sitt af mörkum til að sameina verkalýð og vinnandi alþýðu á samfylkingargrunni gegn óvinunum. Undir leiðsögn marx-lenínismans/ kenninga Mao Tsetungs og forystu öreiganna - er fjöldinn ósigrandi.

- Gegn samningum við Stóra-Bretland og EBE
- Bresk skip úr fiskveiðilögsögunni
- Ísland úr NATO - herinn burt
- Eining og barátta gegn heimsvaldastefnu og risaveldunum.

ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST !
VERKALÝÐSBLAÐIÐ
MÁLGAGN EININGARSAMTAKA KOMMÚNISTA (MARX-LENÍNISTA)
ÁSKRIFTARVERÐ ER: Heilt ár - 600 kr. 1/2 ár - 300 kr.
LAUSASALA: 100 kr.
ÚTGEFANDI: Einingarsamtök kommúnista(marx-lenínista)
PÓSTFANG: Pósthólf 5186 - Reykjavík
AÐSETUR: Laugavegur 178 - 2.hæð sími 84210/35904



Myndin sýnir eina járnblendiverksmiðju ELKEM-SPIGERVERKET.Bæði mökkurinn og yfirráð auðhringsins eru hættuleg verkalýð og vinnandi alþýðu(Klassekampen´76)

# ELKEM * STÓRIÐJA

Eitt þeirra einokunarfyrirtækja sem boðið er velkomið til að stunda rányrkju á íslenskum auðæfum er norska auðfyrirtækið Elkem-Spigerverket. Auðhringurinn Union Carbide hefur hætt þátttöku sinni í fyrirhugaðri málmbræðslu í Hvalfirði, vegna slæms útlits á sölu kísiljárns, að eigin sögn. Í raun er það vegna þess að U.C. sér ekki fram á að geta háfað inn hámarksgróða á stuttum tíma, vegna þess að nægar birgðir eru fyrir hendi á markaðnum, sem afleiðing af kreppuviðbrögðum auðvaldsins. Elkem-Spigerverket er vaxandi auðhringur, , sem spilar djarft um leið og hann hefur baktryggingu í olíuauðæfum Noregs,þar sem hann getur matað krókinn. Elkem-Spigerverket er 3 stærsti auðhringur Noregs og ört vaxandi auðhringur. E-S er hluti svokallaðs Astrups-hóps en í honum eru flest stærstu auðfyrirtæki Noregs. Umsvif ES eru mikil og milljarðavelta árlega. ES rekur fjölmörg dótturfyrirtæki og er stór hluthafi í enn fleiri fyrirtækjum bæði í Noregi og öðrum löndum.

Hvað sækir ES hingað til lands? ES er boðið það sama og öðrum erlendum auðhringum. Ódýr orka og ódýrt vinnuafl. Varla er hægt að tala um sölu á raforku til málmbræðslu hérlendis, nær er að tala um að orkan sé gefin. Fordæmið er orkugjöfin til Álversins. Vinnuafl hérlendis er með því alódýrasta sem til er í Evrópu. Í samanburði við Noreg er ísl. vinnuafl hrein gjöf til ES. Stéttasamvinna ASÍ-forystunnar er sú trygging sem ES hefur gagnvart því að ekki minnki gróðinn við að kaupið hækki. Þar hefur ES langa reynslu til að dæma um.

HOLLENSKT EINOKUNARAUÐVALD OG BLÓMARÆKT.

Jarðhiti er ein þeirra orkulinda sem enn hefur ekki verið nýtt að ráði til iðnaðar. Nú eru uppi áætlanir um að reisa stóriðju sem byggir á þessari orkulind. Hér eru einnig erlendir einokunarauðhringar á ferð og hyggjast auka gróða sinn á því að nýta þessa orku til blómaræktar. Hollenskir auðhringir með einokunarauðhringinn Phillips í fararbroddi eru boðnir velkomnir af íslensku einokunarauðvaldi og ríkisvaldi þess, til þess að færa sér í nyt íslenska orkugjafa.

Hér er ekki um að ræða íslenska stóriðju frekar en fyrirhuguð málmbræðsla í Hvalfirði eða Álverið í Straumsvík, heldur erlenda stóriðju á Íslandi. Það eina sem lagt er af mörkum hérlendis er ódýr orka og ódýrt vinnuafl. Öll fullvinnsla og þar með stærsti hluti verðmætasköpunarinnar fer fram í verksmiðjum auðhringanna erlendis, allur markaðurinn er erlendis og honum ráða einokunarauðhringirnir. Það verða því einokunarauðhringirnir sem hirða gróðan og íslenska einokunarauðvaldið fær að sjálfsögðu eitthvað fyrir sinn snúð - fyrir að selja landið.

EFLUM BARÁTTUNA GEGN ERLENDRI STÓRIÐJU Á ÍSLANDI - LÁTUM EKKI ÍSLENSKA EINOKUNARAUÐVALDIÐ KOMAST UPP MEÐ AÐ SELJA LANDIÐ OKKAR.

Á síðustu árum árum hefur andstaða alþýðunnar gegn gegndarlausri rányrkju á fiskistofnunum magnast svo að nú vantar aðeins herslumuninn á að víðtæk baráttusamfylking alþýðu fari af stað til verndar gegn allri rányrkju á fiskistofninum. Þar ber tvennt til. Rányrkjan hefur höggvið mjög svo nærri rótum sjálfs tilverugrundvallar íslensku alþýðunnar og andstæðingurinn hefur gerst áleitnari en nokkru sinni áður og vakið alþýðuna til baráttu. Við sjáum afrakstur rányrkjunnar í horfnum síldartorfum án þess þó að rányrkjan hafi fært alþýðunni betri kjör, heldur eru það íslenskt og erlent auðvald sem hefur hirt gróðan.

En fiskistofnarnir í hafinu eru ekki einu náttúruauðlindirnar sem við íslendingar eigum. Orkulindir í ám og jarðhita eru líka náttúruauðæfi. Þegar auðæfi hafsins nú þverra óðum vegna rányrkju auðvaldsins, snýr það sér að orkuauðæfum landsins og íslenska einokunarauðvaldið er ekki seint að sjá að þar er opinn möguleiki á að græða stórfé á að selja erlendum auðhringjum afnot af íslensku orkulindunum. Þeir erlendu auðhringir sem hingað sækja ódýra orku og ódýrt vinnuafl gera það með sama hugarfari og breskt og v-þýskt útgerðarauðvald sækir skjótfenginn gróða á fengsæl fiskimið. Með því að selja erlendum auðhringjum afnot af landi okkar er íslenska einokunarauðvaldið og ríkisvald þess að selja þeim yfirráð yfir landinu okkar og yfirráð yfir íslensku vinnuafli. Hvorugt nýtist íslenskri alþýðu til uppbyggingar sjálfstæðs efnahags íslenska þjóðríkisins, sem þó er ein forsenda þess að íslenska alþýðan verði einhverntíma herra í eigin húsi. Íslenska einokunarauðvaldið slær fram tölum um miljarða hagnað af landsölunni. Þetta gerir það til þess að kasta ryki í augu alþýðunnar, til þess að telja henni trú um mikinn hvalreka fyrir "þjóðarbúið". Þetta er einber blekking eins og allir landhelgissamningar sýna, eins og samningurinn um Álverið sýnir. Samt skulum við ekki loka augunum fyrir því að hér eru milljarðar á ferð. Íslenska einokunarauðvaldið hefur aldrei þurft að óttast að tapa á landsölunni, fyrir hana fær það miljarða.

Samningarnir við breta og v-þjóðverja, samningarnir við erlendu auðhringana um afnot af náttúruauðlindum okkar, lýsa ekki undirlægjuhætti íslensku ríkisstjórnarinnar né íslenska einokunarauðvaldsins, heldur eru þessir samningar gerðir í fullri vissu um vænlegan gróða. Þetta segir okkur að í baráttunni gegn rányrkju, hvort sem er á fiskistofnunum eða öðrum náttúruauðlindum, eigum við ekki í höggi við lyddur sem lyppast niður sé á þær ýtt, heldur hagsmunahóp sem sér sér hag í að selja erlendum auðhringjum afnot af náttúruauðlindum okkar. Þessi hagsmunahópur er fyrst og fremst íslenska einokunarauðvaldið og bandamenn þess í ríkisvaldinu íslenska. Gegn þeim verðum við að beina spjótum okkar.
ÞAÐ VERÐUR AÐ STÖÐVA LANDSSÖLUNA!

## frh af bls 1. VERKFALL...

almennra launavinnumanna. Útkoma síðustu kjarasamninga þýddi fyrir þá kyrrstöðu í krónutölu að meðaltali og stórfelldar krónulækkanir fyrstu 2 árin! Þessu veldur það algjöra neyðarástand sem er á samningsmálum iðnnema, en þau eru falin ASÍ - VSÍ til einhliða ráðstöfunar, án fyrirvara um samþykki iðnnemafélaganna. Samningsréttur iðnnema er núll komma enginn.
Ástandið breytist ekki nema með eigin baráttu iðnnema - í einstökum félögum og á einstökum vinnustöðum.

## EIK(m-l)

★★★★★★★★★

Námsstarf EIK(m-l) í marx-lenínismanum er undirstaða undir baráttu!
SKRÁIÐ YKKUR !

ŚKRIFSTOFA SAMTAKANNA ER NÚ AÐ LAUGAVEGI 178,2.hæð.

SÍMINN ER: -- 84210 --

Í SUMAR VERÐA OPNUNARTÍMAR SEM HÉR SEGIR:

Föstudagar: kl.17 - 19.

Laugardaga: kl.14 - 16

## LESENDUR: ÁRÍÐANDI...

TILKYNNING FRÁ VERKALÝÐSBLAÐINU:
Þetta tbl.VERKALÝÐSBLAÐSINS er tvöfalt,þ.e.júní og júlí-blöðin saman.Orsökin fyrir þessu er tvíþætt,aðsetursskipti og sumarleyfi starfsmanna.Blaðið biður lesendur og áskrifendur velvirðingar og vonar að dráttur á útkomu sé bættur með fjölbreyttu og miklu efni.Við minnum ákrifendur á að greiða áskrift,ef þeir skulda hana,með póstávísun eða á gíró 12200.



## UTAN ÚR HEIMI



# ALÞÝÐUVÖLD Í ALBANÍU

Vandamál alræðis öreiganna

Sem lesendum Verkalýðsblaðsins er kunnugt, fóru fulltrúar EIK(m-l) í boðsferð til Albaníu um páskana.

Marx-lenínistar telja Albaníu vera eina sósíalíska land Evrópu nú á dögum. Þeir telja t.d. ekki aðeins vera stigsmun á Albaníu og öðrum Austur-Evrópuríkjum, heldur eðlismun, þ.e. annars vegar hafi verkalýður og vinnandi alþýða hin pólitísku völd, en hins vegar borgarastéttin - skrifræðisborgarastéttin. Það getur sem sagt gerst að verkalýðsstéttin tapi í hendur borgarastéttinni völdunum í ríkiskerfinu, þótt hún einu sinni hafi unnið þau. Það gerist samhliða því að hún tapar völdunum í flokki sínum - kommúnistaflokknum.

Í sósíalískri byltingu taka ýmis samtök alþýðunnar undir forystu kommúnistaflokks, völdin af hinu borgaralega ríkisvaldi. Hlutverk nýja ríkisvaldsins er að gæta alhliða hagsmuna alþýðunnar og halda niðri arðránsstéttunum. En sagan sýnir, að völd alþýðunnar eru aldrei endanlega tryggð á meðan stéttir fyrirfinnast í þjóðfélaginu. Í sósíalismanum geysar stéttabaráttan áfram, sýnu óvægilegar en áður. Hér á alþýðan ekki aðeins í höggi við leifar gömlu arðránsstéttanna, heldur efni í nýja skrifræðisforréttindahópa innan samtaka alþýðunnar (ríkisvald, flokkur..) er geta skilist frá fjöldanum og orðið að nýrri borgarastétt. Og í fyllingu tímans getur borgarastéttin hrifsað völdin fái hún að eflast.

En sagan hefur einnig sýnt, að hægt er að koma í veg fyrir þessa þróun, og hún hefur sýnt, að það verður aðeins gert með virkri fjöldastefnu, sem svo er kölluð. Menningarbyltingin kínverska var sá sögulegi viðburður, er sú stefna var fyrst að fullu skilin af kommúnistum og henni afdráttarlaust fylgt í stéttabaráttunni. Fjöldastefna í sósíalísku þjóðfélagi þýðir að þróað er háþróað lýðræði fyrir alþýðuna og jafnframt alhliða alræði hennar yfir gamalli og nýrri yfirstétt og eftirlit og yfirráð yfir ríkisvaldinu.

Við reyndum eftir megni með viðtölum við fólk og með eigin augum að kynna okkur skipulag á samtökum alþýðunnar og úrræði Albana við vandamálum alræðis öreiganna.

Ríkisvaldið

Í hinu beina ríkisvaldi er það sem kalla mætti alþýðunefndir eða alþýðuráð grunneiningin - fyrst og fremst vinnustaða-, en einnig hverfaráð. Í þau er kosið beint af alþýðunni (t.d. í verksmiðju) og fara þau með æðsta vald í heimapólitíkinni á viðkomandi stað. Fulltrúar í ráðunum er fólk, sem jafnframt vinnur við framleiðslustörf. Auk þess ber þeim reglulega að kalla saman umbjóðendur sína á fundi og ræða með þeim áætlanir og framkvæmdir. Eru þeir að fullu ábyrgir gerða sinna og settir af ef "kjósendum" líkar ekki störf þeirra. Þessi ráð að sínu leyti kjósa í það sem kalla mætti sýsluráð. Sýslan (kommúnan) er stjórnunareining er nær yfir nokkur sveitaþorp og/eða borgir. Æðsti ákvarðandi aðili er svo þjóðþingið sem kosið er í fjórða hvert ár í almennum kosningum. Þjóðþingið setur lög og ákvarðar endanlega efnahagsáætlanir. Ríkisþingið situr aðeins lítinn hluta ársins, en skipar ríkisstjórn er fer með æðstavald þess á milli. Árið 1974 fékk Lýðræðisfylkingin, er var eini framboðslistinn og samanstendur af flokksbundnum kommúnistum og óflokksbundnu fólki, yfir 99% greiddra atkvæða með yfir 99% kjörsókn.

Við hittum bústjóra á ríkisbúi, sem einnig var fulltrúi á þjóðþinginu. Hendur og andlit báru með sér að hann er stritvinnumaður. Lengst af ævi sinni hefur hann verið trjáiðnaðarverkamaður. Og mannlífið á búinu (sem hafði um 13000 íbúa) bar með sér, að það var ekki rekið út frá gróðahagsmunum einhvers stórbokka. Frh. í næsta bl.

## KAMPUCHEA

# Sigurganga þjóðfrelsisaflanna heldur áfram



Þann 17.april s.l. var eitt ár liðið frá því að alþýðan í Kampuchea sigraði heimsvaldasinna og frelsaði land sitt. Núna er Kampuchea frjálst, hlutlaust land þar sem alþýðan vinnur hörðum höndum að uppbyggingu eigin ríkisvalds og eigin framtíðar.

LYGAR OG ÓHRÓÐUR.

Frá því að leppar bandarísku heimsvaldastefnunnar flúðu Phnom Penh hefur heimsafturhaldið haldið uppi stöðugum lygaáróðri um ástandið í Kampuchea. Fréttir um fjöldamorð og ógnarverk hafa verið forsíðugreinar og efni í langa blaðadálka borgarablaðanna. Því er slegið upp að 10 % þjóðarinnar hafi verið myrtur, fólk hafi verið rekið nauðugt frá höfuðborginni Phnom Phen o.s.frv. Undir þessar fréttir hafa svo blöð endurskoðunarsinna tekið og fylgja þar fordæmi Sovétríkjanna sem studdu Lon Nol, hinn bandaríska lepp, allt fram á síðasta dag. Það er sammerkt öllum þessum fréttum að heimildir eru annaðhvort engar ellegar að þær eru komnar frá flóttafólki frá Kampuchea. En það fólk sem flúði Kampuchea eftir sigur alþýðufylkingarinnar voru þeir sem fylgdu Lon Nol að málum, þ.e. andstæðingar alþýðunnar og landeigendastéttarinnar. Hvaða gildi hafa svo frásagnir þess um raunverulegt ástand í landinu, þegar þetta fólk er yfirlýstir fjandmenn uppbyggingarinnar þar? Ekkert.

GETUR FRELSUN ALÞÝÐUNNAR ORÐIÐ ÁN ÁTAKA?

Þjóðfrelsisstríð alþýðunnar í Kampuchea, sem og í S-Víetnam, varð ekki átakalaust. Og óvinurinn var ekki aðeins hið erlenda innrásarlið, heldur einnig leppar þess og sú yfirstétt sem þreifst í skjóli þess hervalds sem innrásarliðið var. Er því að furða að yfirstéttin, sem flúði land sitt, beri hinum nýju valdhöfum, alþýðunni, illa söguna? Hér er því um það að ræða með hvorum aðilanum maður tekur afstöðu, yfirstéttinni sem kúgaði alla alþýðu landsins eða alþýðunni sem greip til vopna gegn kúguninni og frelsaði sjálfa sig og land sitt.

ÞEIR SLETTA SKYRINU SEM EIGA ÞAÐ.

Bandarísku heimsvaldasinnarnir sem standa að baki lygaherferðarinnar, eiga að baki blóði drifinn feril í Kampuchea og í allri Indókína. Í árásum bandarísku heimsvaldasinnanna var sjöundi hver íbúi í Kampuchea drepinn eða 600 þús. manns. Þrjár milljónir manna voru rekin á flótta. Hundruð þúsunda hlutu ævarandi örkuml. Hungur og sjúkdómar herjuðu landið. Stór hluti þeirrar kynslóðar sem nú er að vaxa úr grasi ber varanleg mein eftir langa hungursneyð á viðkvæmasta hluta vaxtarskeiðs síns. Landið var í rúst eftir óhugnaðarárásir B52-risaflugvélanna. Matvælaframleiðslan var engin nema á þeim svæðum þar sem þjóðfrelsisfylkingin GRUNK réði.

Nú ráðast morðingjarnir að fórnarlömbum sínum og úthrópa þau sem morðingja. Nú, þegar Kampuchea sér fram á að geta brauðfætt alla þjóðina með því að virkja hana til framleiðslu á matvælum, er ráðist gegn Kampucheönum fyrir að beina fólkinu út úr borgunum út á landsbyggðina til þess að taka þátt í matvælaframleiðslunni og það kallað nauðungaflutningar. 1970 þegar Prins Sihanouk var steypt af stóli í valdaráni Lon Nol bjuggu 300 þús. manns í Phnom penh. 17. april 1975 þegar borgin var frelsuð bjuggu þar fleiri milljónir manna. Það segir sig sjálft að borgin var yfirfull af flóttafólki. Ástandið í borginni var hörmulegt. Sjúkrahúsin yfirfull og hvergi nægjanlegt starfslið né meðul og hjúkrunartæki til að sinna sjúkum. Sjúkir, deyjandi og dauðir lágu hlið við hlið á sömu stofu í sömu rúmum. Þjóðfrelsisfylkingin hafði engin tök á öðru en að flytja sjúka út úr borginni til að forða þeim frá drepsótt og til að koma þeim fyrir í sjúkrabúðum þjóðfrelsisfylkingarinnar. Eftir að borgin var frelsuð úr höndum heimsvaldasinna tók fólkið að flytja á ný til baka til sinna fyrri heimkynna. Það er þetta sem afturhaldið kallar nauðungaflutninga.

Í stjórnarskrá Kampuchea, sem samþykkt var í vetur, segir að lýðræðisríkið Kampuchea sé ríki verkalýðsins, bændanna og annarra úr röðum vinnandi alþýðu. Það er þetta sem gömlu yfirstéttinni og heimsvaldasinnum svíður. Þess vegna nota þeir sér einokun sína á fréttamiðlum heimsins til að reka lygaáróður gegn hinni frjálsu alþýðu Kampuchea.

(Kampuchea er hið rétta nafn landsins. Kambodia er frönsk afbökun á nafninu.)




# ALBANÍUFERÐ

Albanía er eina sósíalíska landið í Evrópu. Stórkostlegar framfarir þar og hörð barátta gegn leifum yfirstéttarinnar gegn endurskoðunarstefnu og skrifræði er afar lærdómsrík.

Menningartengsl Albaníu og Íslands (MAÍ) gefur félögum kost á 15 daga skoðunar- og kynnisferðum til Albaníu. Verð ferðanna verður um 100.000.- og er allt innifalið í því verði. Brottför frá Kaupmannahöfn er dagana: 6/7, 20/7, 3/8, 17/8 og 31/8.

Hafið samband við MAÍ, pósthólf 1241, Reykjavík, eða Hjálmtý Heiðdal s. 23545 og Ara Trausta Guðmundsson s. 35904.

KYNNIST ALBANÍU!
GANGIÐ Í MAÍ!

## SPÁNN

# LIFI LÝÐVELDIÐ!



Barátta föðurlandsvina og and-fasista á Spáni eykst nú með mánuði hverjum. Þeir hafa afhjúpað að "aukið lýðræði" stjórnarinnar er blekking til að dylja ógnaraðgerðir gegn framsæknu fólki. Þeir hafa ennfremur afhjúpað spænska Moskvusinnaflokkinn, sem undir leiðsögn foringja síns, Carillos, hafa lýst yfir stuðningi við "lýðræðisaðgerðirnar." Jafnframt því hefur flokkurinn háð ötula baráttu gegn hverri tilraun and-fasista til beinnar baráttu og skæruverkfalla. Carillo og Co segja að ekki megi mana stjórnina til illra verka!

Margir and-fasistar hafa fallið í bardögum eða verið teknir af lífi og píndir til bana. En blóð þeirra fellur ekki í spænska mold til einskis. Þeir eru öðrum fordæmi og falla með sæmd í baráttu. Forystuaflið í vopnaðri baráttu and-fasista og þeir sem tekið hafa upp þráðinn úr Spánarstyrjöldinni, er Samfylking föðurlandsvina og and-fasista, FRAP og Kommúnistaflokkur Spánar (m-l) - PCE (m-l) og æskulýðssamtökin JCE (m-l). FRAP er samfylking nærri 20 samtaka og virk um allan Spán, ásamt ETA - þjóðfrelsissamtökum baska. FRAP, ETA og um 60 samtök önnur hafa nú nýverið samþykkt og sent frá sér stofnskrá lýðveldis alþýðu á Spáni. Með þessu er stigið stórt skref til enn frekari sameiningar framsækinna í baráttunni gegn fasismanum, konungsríkinu og undirokuninni á Spáni. Stofnskráin og lýðveldishugmyndin höfðar til verkalýðs, alþýðu og föðurlandsvina Spánar og reisir á ný hetjulegar hefðir alþýðunnar á Spáni.

Baráttan fyrir lýðveldinu og alþýðuvöldum á Spáni er hafinn, öflugri en síðustu ár. EIK(m-l) hefur sent FRAP og öllum and-fasistum á Spáni kveðjur. Þar segir:

"Alþýða landa okkar á sameiginlega hagsmuni í baráttunni. Endurreisn lýðveldisbaráttunnar á Spáni og sigrar ykkar eru sigrar verkalýðs og allrar alþýðu heimsins. EIK(m-l) sendir baráttu- og stuðningskveðjur.

Lifi FRAP og barátta and-fasista og föðurlandsvina Spánar!

Lifi lýðveldið!

Lifi vináttta íslenskrar og spánskrar alþýðu!

Allmargir marx-lenínískir hópar sameinuðust í árslok 1975 og stofnuðu Kommúnistaflokk Portúgals (endurreistan) - PCP(r). Flokkurinn byggir á marx-lenínismanum - kenningum Maos Tsetungs og hefðum hins hetjulega Kommúnistaflokks Portúgals fyrri ára. Kosningasamfylking hans fékk um 50.000.- atkvæði (0.9%) í síðustu kosningum til þings í Portúgal, en þessi flokkur er aðallega virkur í utanþingsbaráttu og vex ört. Fleiri hreyfingar er kenna sig við marx-lenínisma eru til í Portúgal, en EIK(m-l) hefur aðeins samband við PCP(r). Eftirfarandi er hluti úr kveðjubréfi EIK(m-l) til PCP(r):

"Miðstjórn EIK(m-l) ber ykkur kveðjur samtakanna í nafni þeirra vegna stofnunar PCP(r). Uppbygging raunverulegs kommúnistaflokks í Portúgal er mikilvæg til sameiningar verkalýðsstéttarinnar og annarra andfasista og lýðræðissinna í Portúgal. Hún varðar heimshreyfingu marx-lenínista miklu í baráttunni fyrir sósíalisma, gegn heimsvaldastefnu, sósíalheimsvaldastefnunni og endurskoðunarstefnunni. Við óskum ykkur árangurs." BADEIRA VERMELKA (Rauði fáninn) - málgagn PCP(r) birti kveðjuna þann 3. júní s.l.

PROLETÁRIOS DE TODOS OS PAÍSES, POVOS E NAÇÕES OPRIMIDAS, UNI-VOS!

**BANDEIRA ☆ VERMELHA**

ÓRGÃO CENTRAL DO PARTIDO COMUNISTA PORTUGUÊS (RECONSTRUÍDO)

# SAUDAÇÕES AO PCP (R)

## DA LIGA COMUNISTA DE UNIDADE (MARXISTA-LENINISTA) DA ISLÂNDIA

**Camaradas**

**O CC da nossa organização saúda em nome da EIK (m-l) a fundação do PCP(R). A construção de um verdadeiro partido marxista-leninista em Portugal está a provar a unidade dos marxistas-leninistas no vosso país, a unidade da classe operária e de outras forças antifascistas e democráticas e, finalmente, é de grande valor para o movimento marxista-leninista mundial, na luta pelo socialismo, contra o imperialismo, social-imperialismo e revisionismo.**

**A EIK (m-l) envia ao PCP(R) os seus melhores votos de sucesso (...) observámos com interesse tanto um artigo do «B.V.» sobre a nossa luta aqui na Islândia a favor dos recursos piscatórios como a quantidade de votos na UDP, nas eleições em Portugal. (...)**

**Recebam as nossas saudações comunistas**

**Pelo CC da EIK (m-l)**
**ARI TRAUSTI GUDMUNDSSON**
**(Presidente)**




Af forsíðu Bandeira Vermelha, málgagni PCP(r). ---- Kveðja EIK(m-l) til flokksins.

# Kveðja til EIK(m-l)




Félagar!

Annað þing Kommúnistaflokks Svíþjóðar kemur saman þegar ástandið í heiminum og okkar eigin landi er undirorpið miklum breytingum.

Barátta alþýðunnar fyrir þjóðlegum sjálfsákvörðunnarrétti hrekur heimsvaldastefnuna til undanhalds. Lönd þriðja heimsins verða æ fleiri í víðtækari samfylkingu í baráttunni gegn arðráni og undirokun heimsvaldalandanna. Stéttabaráttan verður sífellt skarpari í heimsvaldalöndunum. Risaveldin bæði, Sovétríkin og Bandaríkin, eru stærsta hindrunin í vegi fyrir frelsun alþýðunnar. Þau berjast ákaft innbyrðis um heimsyfirráðin og vígbúast af kappi til stríðs. Núna er það einkum sovéska sósíalheimsvaldastefnan sem er í sókn.

Barátta sænsku verkalýðsstéttarinnar og sænsku alþýðunnar þróast ört. Einokunarauðvaldið og ríkisvald þess vígbýr sig til að brjóta á bak aftur þessa hreyfingu. Stéttaandstæðurnar verða hvassari.

Sænski kommúnistaflokkurinn lítur á það sem algera nauðsyn að sameina allt framsækið fólk um pólitíska stefnu flokksins, að sameina verkalýðsstéttina á grundvelli stéttabaráttunnar og að sameina alþýðuna í baráttu gegn einokunnarauðvaldinu og risaveldunum báðum. Til þess að framkvæma þetta verkefni er það nauðsynlegt að herða baráttuna gegn hinum borgaralegu verkalýðsflokkum.

Þingið hefur staðið fast á hinni marx-lenínísku undirstöðu flokksins og hafið leiðréttingu á þeim hægrivillum sem gerðar

frh. bls. 5.

# OFML | KYNNING á norrænum systursamtökum EIK(m-l)




1.maí síðastliðinn, kom út fyrsta tölublað mánaðarblaðs bróðursamtaka Eik(m-l) í Færeyjum - Oyggjaframa (marx-lenínista). Eik (m-l) sendir baráttukveðjur til OFML í tilefni þessa mikilvæga áfanga í baráttu samtakanna fyrir stofnun færeysks kommúnistaflokks.

Í Færeyjum hefur aldrei verið til kommúnískur flokkur. Árið 1963 stofnuðu nokkrir færeyskir stúdentar í Kaupmannahöfn samtökin Oyggjaframi. Þetta voru breið sósíalísk samtök, sem störfuðu mest sem umræðuklúbbur félaganna. Árið 1968 var stofnuð deild úr Oyggjaframa í Þórshöfn. Stuttu síðar hófst hópur marx-lenínista handa um að breyta Þórshafnardeildinni úr hinni breiðu sósíalísku hreyfingu á lágu vitundarstigi, í markviss flokksbyggingarsamtök á grunni marxismans-lenínismans - kenninga Maos Tse-tungs.

Á þingi samtakanna 1972 var þessu markmiði náð. Hinir gömlu meðlimir annað hvort gengu úr samtökunum eða gengu á hönd marx-lenínismanum, auk þess sem fjöldi nýrra meðlima bættust í hópinn. Oyggjaframi klofnaði því í tvo hópa: Færeyska sósíalista (FS) í Kaupmannahöfn, sem tekið hafa upp þráð gamla Oyggjaframa, og OFML í Færeyjum. Á þinginu 1972 setti OFML sér skólun starfsliða samtakanna sem sitt höfuðverkefni. Auk þess sem samtökin tóku þátt í stéttabaráttunni, var tíminn fram að næsta þingi, í mars 1973, notaður til þess að afhjúpa og leiðrétta alls kyns hentistefnuhugmyndir sem höfðu bólfestu innan samtakanna. Á þingi sínu árið 1975 staðfestu OFML 5 kjörorð, sem skulu vera leiðarvísar í baráttunni: Leggjum höfuðþungann á námið framar öðru starfi; Treystum og iðkum hið lýðræðislega miðstjórnarvald; Festum rætur meðal verkalýðsstéttarinnar; Leiðum Alþýðufylkinguna gegn Efnahagsbandalaginu fram til nýrrar atlögu við heimsvaldastefnuna; Stefnum að útgáfu nýs verkalýðsblaðs.

# KÌNA - CHILE - SOVÈT

Byltingarsinnuð utanríkisstefna kínverska alþýðulýðveldisins hefur löngum verið skotspónn afturhaldsins, og "falskra sósíalista." Ósérhlífin stuðningur við þjóðfrelsisöfl og virðing fyrir sjálfsákvörðunarrétti þjóða er þeim þyrnir í augum sem annað hvort vilja "flytja út" byltinguna (sbr. trotskistar) eða eru logandi hræddir við sjálfræði og þjóðfrelsisstríð (sbr. Sovétríkin). Sovétríkin gera þjóðfrelsisöfl háð sér, arðræna nýfrjáls ríki og etja alþýðunni saman innbyrðis fyrir sovéskan hag.

Það er því skiljanlegt að Sovétmenn og bergmælendur þeirra í Alþýðubandalaginu og Fylkingunni gangi af göflum þegar marx-lenínistar afhjúpa arðrán Sovét á Indlandi, stuðning við fasisma í Bangla Desh, stuðning við Lon Nol-klíkuna í Kambódíu o.s.frv. Sovéskt afturhald er rekið á hlaupum úr löndum allt frá Kambódíu til Egyptalands fyrir "stuðning" sinn.

"Alþjóðahyggja" sú sem Þjóðviljinn, Pravda, Neisti og Kúbu-Castró boða, sést í hnotskurn í Afríkuríkinu Angóla. Þar slátruðu þúsundir kúbana, ásamt MPLA, öðrum hlutum alþýðunnar, og þetta var kallað endurtekning á alþýðustuðningi frá Spáni 1936. Þarna er árásum á angólsku alþýðuna frá hendi Sovét, Kúbu, Bandaríkjanna og Suður-Afríku líkt við stríð spánskrar alþýðu gegn yfirstéttinni á Spáni; þrístirninu Frankó, Mússólíní, Hitler. Og ekki ræðst Þjóðviljinn gegn Sovét fyrir stuðning þeirra við ZAPU-fylkinguna í Zimbabwe (Rodesíu). ZAPU stefnir að sáttum við kúgarana þar. ZANU-fylkingin heyr aftur á móti alþýðustríð með stuðningi margra þjóða, þ.a.m. Kína. -Það túlkar Þjóðviljinn sem "tilviljun að Kína veðji á réttan hest."

En með þessu er aðeins verið að reyna að fela, að Kína Heldur fast við grundvallaratriði:
- allir and-heimsvaldasinnar eiga fullan stuðning skilið með fullri virðingu fyrir sjálfræði þeirra þjóða;

Gagnvart kapítalískum ríkjum og afturhaldi er hin rétta stefna sú að berjast gegn yfirgangi þeirra en styrkja sjálfræði gagnvart risaveldunum, í þeim tilgangi að gera þeim sem erfiðast fyrir.

Þessu má ekki blanda saman - annars vegar stefnu gagnvart þjóðfrelsisöflum og hins vegar gagnvart ríkjum allra tegunda.

KÍNA OG CHILE

Endurskoðunarsinnar allra tegunda nota Chile sem grýlu á fólk og árása á Kína. Til dæmis bera þeir út að Kína hafi slitið stjórnmálasambandi við Allende þegar úrslitaorustan um Alþýðufylkinguna stóð. T.d. er hvatt til slita á stjórnmálasambandi og núverandi viðskiptum við Chile, og Kína sakað um að auka viðskiptin. T.d. er það borið á Kína að alþýðulýðveldið stundi vopnasölu til Pinochet-stjórnarinnar. Sannleikurinn er samt alltaf sagna bestur, og hann er allur annar.

1. Kína sleit aldrei stjórnmálasambandi við Allende og lokaði ekki sendiráði sínu í Santiago fyrir flóttamönnum. Kínverskir sendiráðsbílar voru notaðir til mannflutninga. Sendiherra Chile í Kína var boðið hæli sem pólitískur flóttamaður, en hann kaus að fara heim til Chile. Kína sleit aldrei stjórnmálasambandi við Chile, þ.e.a.s. hélt þessum tengslum, þrátt fyrir valdaránið. Orsökin er einfaldlega sú, að Kína vill hafa stjórnmálasamband og réttinn sem því fylgir í sem flestum ríkjum. Kína hefur stjórnmálasamband við afturhaldsríki eins og Spán, Bandaríkin, Indónesíu og Sovétríkin og hefur sýnt fram á að slit á stjórnmálasambandi landsins við smærri ríki er vatn á myllu heimsvaldasinna. Stjórnmálasamband merkir ekki aðra viðurkenningu á stjórn en þá að hún er viðurkennd sem ríkisstjórn landsins. Kínverjar styðja þjóðfrelsis- og andheimsvaldaöfl Chile. Enda er eðlilegt samband milli kommúnista í báðum löndunum.

2. Viðskiptaeinangrun Chile er í sjálfu sér engin höfuðlausn. En öðru máli gegnir um viðskipti ferðamanna - alþýðufólks - við Chile. Eins og á Spáni, getur erlend alþýða snarlækkað tekjur ríkisins. En um slíkt er ekki að ræða í þessu tilviki. Kína hefur ekki endurnýjað neina viðskiptasamninga við Chile eftir fall

frh. bls. 5.




Þessi mynd sýnir flutningaskjöl fyrir 500 tonna koparfarm frá Chile til A-Þýskalands. Það er a-þýska fyrirtækið Deutrans, sem er flytjandi og kaupandi. Þetta er gott dæmi um hið raunverulega sem endurskoðunarsinnar reyna að fela með fölskum fréttum um utanríkissamskipti Kína. (Klassekampen, júní)

KVENNABARÁTTA Á GRUNDVELLI STÉTTABARÁTTU

# Mjólkurbúðamálið

MEÐAL SÍÐUSTU VERKA ALÞINGIS VAR AÐ SAMÞYKKJA FRUMVARP, SEM HEFUR Í FÖR MEÐ SÉR, AÐ MJÓLKURSAMSALAN HYGGST LEGGJA NIÐUR ALLAR BÚÐIR SÍNAR OG GERA ÞAR MEÐ 167 KONUR ATVINNULAUSAR. VERKALÝÐSBLAÐIÐ RÆDDI VIÐ HALLVEIGU EINARSDÓTTUR, FORMANN FÉLAGS AFGREIÐSUSTÚLKNA Í BRAUÐA- OG MJÓLKURBÚÐUM, OG FER VIÐTALIÐ HÉR Á EFTIR.

## FJÖLDAUPPSÖGN í vændum

Vbl.: Gætirðu fyrst sagt lauslega frá aðdraganda þessa máls, Hallveig?

Hallveig: Það eru nú rúm tvö ár síðan Samsalan talaði við ASB, þá voru helst hugmyndir að kaupmenn keyptu búðirnar af Samsölunni. Nú, Ellert G. Schram var víst fyrstur til að hreyfa þessu á þingi, en frumvarpið var borið fram á þinginu veturinn '74-'75. Í vetur, þegar líklegt þótti, að frumvarpið yrði samþykkt, talaði Samsalan um, að búðunum yrði lokað frá og með 1.júní, en það var svo hætt við það og jafnframt var okkur lofað 3ja mánaða uppsagnarfresti, en venjulega er uppsagnarfresturinn hálfur mánuður.

Vbl.: Nú hafa kaupmenn lengi haft mjólk til sölu í verslunum, margir hverjir - hvað hefur raunverulega breyst við samþykkt frumvarpsins?

Hallveig: Einkasöluleyfi Samsölunnar er nú fallið úr gildi. Samsalan hefur ráðið því hvaða kaupmenn fengu leyfi til mjólkursölu, og haft eftirlit með því, hvort þeir hefðu þessa aðstöðu, en eftirleiðis sér heilbrigðiseftirlitið um þessa hlið og allir hafa jafnan rétt til sölu á mjólk. Samsalan getur því þess vegna rekið búðir sínar áfram, en afstaða hennar er sú, að ekki sé rekstrargrundvöllur fyrir gömlu mjólkurbúðirnar, þegar mjólkin sé komin í allar búðir. En nú er alls ekki víst, að allir kaupmenn hafi efni á að koma sér upp aðstöðu fyrir mjólkursölu, þetta er viðkvæm vara og kostnaðarsöm breyting að koma upp viðunandi aðstöðu. Það eru fyrst og fremst stórkaupmenn, sem hafa viljað einkaleyfi Samsölunnar burt. Samsalan sjálf er e.t.v. ekki mjög umhugað um að reka þessar búðir áfram, þar sem gróði af þeim er ekki mikill.

Vbl.: Veistu hvernig þingflokkarnir snérust yfirleitt við frumvarpinu?

Hallveig: Nei, ég get varla sagt það. Við ætluðum að fjölmenna á þingpalla, konurnar úr ASB, en svo var þetta afgreitt á kvöld- eða næturfundi. En ég hefi heyrt, að umræðan hafi mest snúist um okkur. Mér skilst, að þingmenn Alþýðubandal. og Alþýðufl. hafi skilað séráliti, en ég veit ekki hvernig það hljóðaði.

Vbl.: Hverjar verða afleiðingar þessa fyrir ASB-hvernig verður framkvæmdin?

Hallveig: Nú, Mjólkursamsalan hefur semsé lýst því yfir, að hún muni hætta rekstri búða sinna að frumvarpinu samþykktu, og eins og ég sagði áðan var um það talað í vetur, að sú lokun kæmi jafnvel til framkvæmda 1.júní. Frá því var þó horfið og okkur lofað 3ja mán. uppsagnarfresti. Síðan hefur ekki verið við okkur talað, og við bíðum bara eftir uppsagnarbréfum. Kaupmannasamtökin og Verslunnarmannafélag Reykjavíkur hafa sent frá sér sameiginlega yfirlýsingu um, að félagskonur ASB muni sitja fyrir um vinnu í kjörbúðunum, í eitt ár eftir lokun búðanna, ef kaupmenn bæti við sig fólki. En ekki er mikil atvinnuvon þar nú þegar allir eru að fækka fólki. Auk þess eru margar þessara kvenna komnar yfir miðjan aldur og því mjög erfitt fyrir þær að þurfa að hrekjast út í atvinnuleit. Ennfremur tapa þær réttindum í stéttarfélagi sínu, sem þær hafa verið að ávinna sér í fjölda ára. Yfir helmingur félagskvenna í ASB eru konur, sem starfa í búðum Samsölunnar og þær hafa jafnan myndað virkasta kjarnann í félaginu. Ég tel, að Samsalan eigi að reka þessar verslanir áfram, einnig vegna þess að þetta er mjög góð þjónusta og mun betri en kaupmenn gætu veitt. Og jafnvel þótt þessar búðir eigi ef til vill að hverfa, þá er þessi framkvæmd algerlega ómöguleg og ég vil að lokum fyrir hönd félagsins mótmæla þessum atvinnu- og réttindasvipti harðlega.

# Láglaunaráðstefna

Láglaunaráðstefna kvenna á Hótel Loftleiðum var sæmilega vel sótt. Þar voru 12 stutt framsöguerindi flutt og voru þau svona sitt á hvað pólitísk, en staðfestu annars vel það sem EIK(m-l) hafa sagt um hörmungarástandið í verkalýðsfélögum og þær erfiðu aðstæður og ranglæti sem láglaunafólk verður að þola vegna þessa ástands. Eftir framsögur störfuðu starfshópar um átta málaflokka og samdi hver hópur ályktun um sitt mál. Komu fram í þeim vaxandi skilningur á samstöðu kynjanna í baráttunni, að hagur láglaunakvenna og karla er hinn sami og baráttumálin þau sömu. Einnig kom fram í ályktun fjölmenns starfshóps um samfélag í mótun, fjölskylduna og heimilið, að rætur vandans liggja í því auðvaldskerfi, sem við búum við, og eina aflið, sem geti leyst þau vandamál er markviss og sterk barátta verkalýðs og vinnandi alþýðu gegn auðvaldinu. Hins vegar leggja þeir sem fyrir þá ráðstefnan skilaði af sér einkennilega mikla áherslu á þann hluta efnis sem ekki er upplýsandi um samvinnu núverandi"forystu" verkalýðsfélaganna við atvinnurekendur um að skerða hag láglaunafólks og vandræðum velta vesöld og vandræðum atvinnurekenda yfir á þá, sem eiga það síst skilið af öllum. Jafnvel heyrist margendurtekin í fjölmiðlum nokkurs konar traustsyfirlýsing á þessa verkalýðs"forystumenn" í formi "áskorunar" að taka nú upp baráttu fyrir þessu eða lagfæra hitt. Hafa þessir "forystumenn" verkafólks tekið upp baráttustefnu? Hvar bólar þá á henni? Það er til lítils að skora á framámenn í stéttasamvinnu að fara nú allt í einu að berjast gegn stéttasamvinnunni. Það verður að endurreisa verkalýðsfélögin til baráttu - gegn þeirri forystu verkalýðsfélaga sem hefur samvinnu við auðvaldið á dagskrá, því án baráttu fæst enginn sigur, því án baráttu gegn stéttasamvinnu fær verkafólk engan sigur í verkalýðsbaráttunni. Svo einfalt er það.

# Samstaða NÁMSFÓLK - VINNANDI ALÞÝÐA

Ýmsu vinnandi fólki þykir námsmenn utangarðshópur, ef ekki baggi á þjóðfélaginu, og væntir lítillar samstöðu með slíkum hópi.

Auðvitað eru námsmenn hópur; þeir eru ekki í neinni stétt, en koma úr mismunandi stéttum og lenda að námi loknu í mismunandi stéttum. En hinu er ekki að leyna að námsmenn eru, ásamt gamalmennum, sá hópur þjóðfélagsþegna sem hvað erfiðast á með að vinna fyrir sér, og getur það raunar ekki sakir lítils sumarfrís og lágra vinnulauna. Því er eðlilegt að námsmenn leiti eftir samstöðu og veiti fulltingi sitt vinnandi fólki. Við sameiginlegan óvin er að slást fyrir sameiginlegum málstað: efnahagslegt jafnrétti til náms og nám í þágu fjöldans og fyrir fjöldann, en ekki til hagsbóta atvinnurekstri og fjárglæpamennsku.

Til að árangur verði sem bestur og slagkraftur baráttunnar sem mestur, ber brýna nauðsyn til þess að námsmenn og vinnandi alþýða standi saman sem einn maður í kjarabaráttu sinni og réttindabaráttu.

Alþýðufólk hefur mátt þola einstæðar árásir á kaupmátt launa síðastliðna mánuði. Hefur einokunarauðvaldið og ríkisvald þess ekkert til sparað við að velta "rekstrarörðugleikum" sínum, kreppu, yfir á bak verkafólki og styrkja gróðastöðu sína. Námsmenn búa við svipaðar árásir.

FRÉTTATILKYNNING :

# VERSLUNARMENN TIL BARÁTTU



Hópur félaga innan Verslunarmannafélags Reykjavíkur ályktar eftirfarandi: Við mótmælum þeim kjörum sem við höfum þurft að búa við undanfarið.

Við teljum enganveginn réttlátt að laun fyrir vinnudag okkar hrökkvi ekki fyrir öðru en brýnasta viðhaldi vinnukraftanna. Við teljum þá breytingu sem átt hefur sér stað á skiptingu lífsgæðanna, peninga sem og réttinda, vera ranglátu, og tökum hér með upp andspyrnu gegn henni. Við styðjum kröfur allra þeirra sem móti breytingu þessari berjast og skorum á alla launþega að standa saman gegn valdinu sem að henni stendur.

Við lýsum nú sérstaklega yfir stuðningi við kröfur starfsfólks hjá Ríkisútvarpinu um leið og við hefjum upp kröfuna um fullar vísitölubætur á öll laun, reiknaðar mánaðarlega og greiðist sem jöfn krónutala á öll laun, miðað við framfærslukostnað.

Við lýsum yfir vanþóknun á þeim fullyrðingum að svokölluð "staða atvinnuveganna" leyfi ekki fullnægjandi laun handa verkafólki, á sama tíma og þeir sem sjá um atvinnurekstur láta augljóslega berast á, en alþýðufólk býr við aum kjör.

Við bendum fólki á, að þetta ástand er fyrst og fremst að kenna þeim mönnum sem fjöldinn hefur lagt traust sitt á. Þeir hafa brugðist hlutverki sínu sem sverð og skildir okkar, og nú er röðin komin að sérhverju okkar að endurvekja verkalýðsfélögin til baráttu fyrir hagsmunum og réttindum okkar. Fyrst verðum við að vakna, við getum ekki sofið lengur á verðinum, enginn veit hverjar kröfur þær sofandi lífvera gerir.

Ef við sjálf stöndum ekki upp til baráttu gegn þeim sem á okkur troða og svíkja okkur, gerir það enginn. Við verðum að leita leiða og reyna þær. En fyrst af öllu, verðum við að koma vilja okkar á framfæri við alla sem heyra vilja og sjá, fjölmiðla og einstaklinga.

Hefjumst handa nú.

**Nýi verkamaðurinn**

PÓSTHÓLF 650, - PÓSTGÍRÓNÚMER 23673.

ÚTG.: BARÁTTUSAMTÖK LAUNAFÓLKS.
Ritnefnd: Guðbrandur Magnússon (ábm.), Sigfús Arnþórsson og Þórarinn Hjartarson.
Verð: Venjulez áskrift: 500 kr., stuðningsáskrift 1000 kr. — 1 lausasölu: 50 kr.
Blaðið kemur út mánaðarlega.
PRENTSMIÐJA BJÖRNS JÓNSSONAR HF.

Blaðið Nýi Verkamaðurinn er nú gefið út af Baráttusamtökum launafólks á Akureyri. Nýi Verkamaðurinn (NV) hóf göngu sína á s.l. ári, þá útg. af KSML og síðan af KSML og EIK(m-l) í sameiningu. EIK(m-l) ákváðu síðan að draga sig í hlé frá útgáfunni og leggja þess í stað áherslu á að byggja upp málgagn fyrir Baráttusamtök launafólks.Nú hefur KSML-deildin á Akureyri ákveðið að gefa BSL blaðið til útgáfu.Þessu fögnum við í EIK(m-l),þar sem þetta hefur ætíð verið stefna okkar.NV í höndum BSL verður til þess að styrkja starf BSL og skapa víðtækari einingu í baráttunni gegn stéttasamvinnustefnunni og atvinnurekendum. KSML segja þá ákvörðun sína að gefa BSL Nýja Verkamanninn vera lið í uppgjöri sínu við einangrunarhyggju KSML.Á s.l. ári gagnrýndu KSML EIK(m-l) fyrir að taka afstöðu gegn þessari einangrunarhyggju.Bíðum við því þess að KSML/KFÍ/ML geri sjálfsgagnrýni og lýsi yfir að stefna EIK(m-l) hafi verið rétt. Auk þess er beðið eftir að það uppgjör sem ákvörðun KSML á Akureyri um að gefa NV BSL er liður í sjái dagsins ljós.

frh.af bls.4. KÍNA-

Allendes. Hins vegar mæla alþjóðalög svo fyrir að viðskiptasamningur Kína frá tímum Allendes sé ógildanlegur fyrr en samningstíminn er útrunninn.

3. Óundirritað bréf frá"kínverska sendiráðinu" til ráðuneytis í Chile var fjölritað og því dreift í fjölmiðlum endurskoðunarsinna um heim allan. Það átti að "sanna" ósk kínverja um vopnasölu til fasistanna. Þetta er vélritað bréf með einföldum haus og stimpli. Slík "sönnunargögn" hafa verið framleidd hjá CIA árum saman. KGB og sovésk yfirvöld kunna þessa list líka. Hvers vegna var bréfið ekki undirritað og hvers vegna höfðu Moskvusinnar hönd á þessu bréfi?

Vopnasölusagan er því svartasta fölsun og lygi.

En þegar franskt blað birti nótur/faktúrur o.fl. frá austur-evrópskum fyrirtækjum sem sýndu sölu handvopna og skriðdreka af sovéskri gerð til Chile, þá þagði Þjóðviljinn og aðrir borgaralegir fjölmiðlar. Hafi "kínverjar eða CIA staðið fyrir þessum sönnunargögnum" ætti að vera auðvelt að hrekja þau. En því skyldu þeir sem selja egyptum svikin vopn, en portúgalska afturhaldinu góð vopn, ekki selja Pinochet vopn til að ná áhrifastöðum af Bandaríkjunum?

frh af bls4 SKP

hafa verið, villum sem komu til vegna sáttfýsi gagnvart endurskoðunarstefnunni og sem styrktu rangar hugmyndir meðal vinnandi alþýðu um borgaralegu verkalýðsflokkana og ollu hringlandahætti innan hinnar marxlenínísku hreyfingar.

Flokkurinn mun leggja meiri rækt við að styrkja einingu marx-lenínistanna, þróa baráttu verkalýðsstéttarinnar og virkja alþýðuna til baráttu undir forystu verkalýðsstéttarinnar gegn einokunarauðvaldinu og risaveldunum báðum.

Flokkurinn mun einnig styrkja tengsl sín við hina alþjóðlegu kommúnískuhreyfingu og væntir áframhaldandi og enn nánari sambanda við systurhreyfingar sínar á Norðurlöndum.

Annað þing Kommúnistaflokks Svíþjóðar.

ÞORVALDUR ÁRNASON HEFUR TEKIÐ ÞÁTT Í AÐ UNDIRBÚA STOFNUN SAMFYLKINGAR UM ALÞÝÐUMENNINGU

# ALÞÝÐUMENNING

## Viðtal við Þorvald Árnason ★

sp.: Hvaða starf hafið þið verið að vinna undanfarið Þorvaldur?

ÞÁ: Við höfum verið að undirbúa stofnun hreyfingar, sem myndi efla alþýðumenningu. Við höfum í því skyni rætt mikið um menningu og list og m.a. reynt að finna út hvers konar menning þetta er sem okkur er boðið upp á og í hvers þágu hún er. Við álítum, að mikið af þessari menningu sem haldið er að okkur þjóni ekki hagsmunum alþýðu. Oft er þessi menning alþýðunni framandi og yfirleitt er boðskapurinn eða innihaldið þess eðlis, að arðránsþjóðfélag það sem við nú búum við, er tekið sem sjálfsagður og óhjákvæmilegur hlutur. Þannig réttlætir þessi menning áframhaldandi kúgun alþýðufólks með því að útbreiða hugmyndir og siði kúgarans og sporna við frumkvæði hinna undirokuðu. Svo verður alþýðufólk yfirleitt að borga fyrir þennan ósóma af takmörkuðum fjárráðum sínum. Það er því mjög brýnt að fólk bindist samtökum til að berjast gegn þess konar menningardrottnum, og fyrir vexti og framgangi alþýðumenningar.

sp.: Er þá einhver alþýðumenning til?

ÞÁ: Áður fyrr fyrir tilkomu nútíma fjölmiðla átti alþýðan sína menningu, sem hún skóp sjálf í eigin þágu til að gera lífið bærilegra og ekki síður sem vopn í baráttu hennar gegn bæði erlendri og innlendri kúgun.

sp.: ER þá þessi menning liðin undir lok?

ÞÁ: Nei en hún á vissulega í vök að verjast. Sú menning sem er drottnandi núna, er ekki sköpuð af alþýðunni sjálfri, heldur framreidd tilbúin og seld sem hver önnur vara og troðið upp í fólk með allskyns auglýsingarstarfsemi.
Hinn gamli alþýðumenningararfur er ennþá lifandi meðal fólks, en kemur í allt of litlum mæli fram í dagsljósið, heldur einangrast hjá einstaklingum og smærri hópum, einkum eldra fólki. Þetta ástand hindrar mjög, að hin gamla alþýðumenning getur þróast með þjóðfélaginu og haldið gildi sínu sem menning alþýðunnar í dag og verið hvatning til samstilltra átaka við mörg knýandi vandamál nútímans og gefið alþýðunni sjálfstraust og gleði.

sp.: Geturu nefnt dæmi um eitthvað úr gamalli alþýðumenningu, sem mætti endurvekja og efla?

ÞÁ: Rímurnar gætu verið eitt dæmi. Þær hafa verið óspart notaðar af alþýðu hér áður fyrr, en nú er nær eingöngu gamalt fólk, sem kveður rímur og listamenn okkar kynslóðar gefa þessu varla gaum. Ég held að hvorki popp né synfóníur geti komið í stað rímnanna. Ríman er aðgengilegt form og auðvelt að flytja við allskyns aðstæður, t.d. við vinnu. En það væri alls ófullnægjandi að fara að kveða gamlar rímur um gamlar hetjusögur. Það þarf að yrkja um það sem skiptir máli fyrir okkur alþýðufólk í dag. Ég nefni rímurnar bara sem dæmi, ég gæti eins vel hafa nefnt revíur, þulur, alþýðubókmenntir O.fl. Svo má vissulega nota ýmsa hluti úr þessari menningu, sem verið er að troða upp á okkur núna og mörg okkar hafa tekið talsverðu ástfóstri við, þó að hún sé óheppileg og skaðleg alþýðu í heild sinni.
Ég tel að það megi t.d. nota margt úr popptónlistinni, ef henni er gefið innihald, sem samrýmist hagsmunum okkar alþýðufólks.

sp.: Hvers vegna hefur menningin ekki verið meira notuð í landhelgisbaráttunni, kjarabaráttunni og gegn hernum og NATO núna upp á síðkastið?

frh. bls. 7



# Húsnæðismál:

## Eftirspurn orsök húsnæðisskorts?

Flestir Íslendingar nota 5 - 10 ár ævi sinnar til þess að fá sér þak yfir höfuðið. Húsnæðisþörfin virðist alltaf vera fyrir hendi, hvað mikið sem byggt er. Ný hverfi spretta upp með ofsahraða í útjaðri borgarinnar, miðbærinn tæmist smám saman af fólki. Þess í stað koma skrifstofur og verslanir, að ógleymdum hraðbrautunum. Af hendi yfirvalda er þessum framkvæmdum yfirleitt hrósað hástöfum. Aldrei heyrir maður orð um hvernig lífskjör almennings versna jafnt og þétt, hvernig vandamál af ýmsu tagi vaxa innan steinsteypueyðimerkurinnar, ekkert um hvernig fólk vinnur sig hálfdautt við að fá upp húsið, - borgandi víxil með víxli o.s.frv.
Ekkert er minnst á húsmæður sem þurfa að lifa allan daginn innanum kassana, með börnum og öðrum húsmæðrum. Ekkert um alla þá kílómetra sem fólk þarf að fara til vinnu, eða í verslanir eða í bíó o.s.frv. En stundum má heyra undrunarorð, og skammaryrðum um steinsteypueyðimörkina fjölgar. Það heyrist helst frá þeim, sem ekki þurfa ennþá að búa þarna, en fyrr eða síðar lenda þeir þar líka. Húsnæðisskortur og fjárskortur gerir það fyrr eða síðar að verkum, að fólk er neytt til að flytja út í svefnhverfin. En ör vöxtur nýs borgarhverfis er aðeins ein hlið þess skipulags, sem ríkir í okkar borgarsamfélagi og þjóðfélaginu yfirleitt. Til þess að skilja hvað er í raun og veru að gerast, verður að skilja hvaða öfl ráða í þjóðfélaginu. Hvaða lögmál gilda um húsabyggingar og sístækkandi borgir hjá okkur, eins og alls staðar í auðvaldsþjóðfélögum?
Því verður reynt að svara í þessari grein og í greinum sem birtast munu í næstu tbl. Verkalýðsblaðsins.
Fyrst skulum við snúa okkur að forsendum ört stækkandi borgar og hlutverki húsbygginga í auðvaldsskipulaginu. Á sama hátt og kapítalisminn átti upptök sín í borgum, verður borgin nauðsynleg forsenda þess að kapítalíska þjóðfélagið geti dafnað áfram. Eftir að borgarastéttin ryður sér til rúms í íslensku þjóðfélagi og verður hin ráðandi stétt, færast framleiðslutækin yfir á færra hendur, og aðalathafnasviðið verður í borginni. Þangað þarf fólk að sækja til þess að fá sér vinnu, þar verður fólk að búa. Auðherrarnir þurfa á vinnuafli verkamannsins að halda. Á sama tíma og auðmagnið færist yfir á æ færri hendur, stendur verkalýðurinn uppi og á ekkert nema sitt eigið vinnuafl að selja. Verkafólk þjappast saman í stórborgum, í kringum verksmiðjurnar, sneytt eignum á landi og yfirráðum yfir framleiðslutækjum. Til þess að geta selt vörurnar er nauðsynlegt fyrir auðherrana að til sé markaður og einhverjir til að kaupa þær, svo nefndir "neytendur", verkafólkið sjálft verður að kaupa vörurnar, sem það hefur framleitt, á okurverði. Þessir flutningar fólks til borgarinnar, sem eru þeir stærstu í sögu Íslands, ganga á engan hátt hömlulaust fyrir sig. En ríkisvaldið er tækið sem einokunarauðvaldið notar til þess að gera lífið á mörgum stöðum á landsbyggðinni illþolanlegt. Fyrr eða síðar neyðist æ fleira fólk til að hætta að búa og flytja til bæja, vegna "byggðastefnu" ríkisvaldsins. Samþjöppun fólks í þéttbýli hófst á Íslandi uppúr aldamótum og hefur síðan þróast þannig að í dag búa um 60% íslensku þjóðarinnar á Stór-Reykjavíkursvæðinu.
Ríkisvaldið notar margar leiðir til þess að þvinga fólk til flutningar af landsbyggðinni til þéttbýlisins, og þessi "stefna" þess tekur oft á sig einkennilegar myndir. Opinberir aðilar hafa t.d. reiknað út, að leggja beri niður Strandir. Þeir segja að svæðið "borgi sig ekki" lengur, skólar og vegir séu of dýrir fyrir svona fátt fólk. Engu að síður er það þetta fólk, sem <u>framleiðir mest á einstakling á Íslandi</u>.
Ekki er hugsað um hvað flutningurinn muni kosta, etv. vegna þess að þá byrði verður fólkið sjálft að bera. Enn fremur er notaður alls konar áróður til þess að sýna fram á ágæti þéttbýlisins og þá einkum Reykjavíkur. Hér er menningarlíf, vöruval, frelsi o.s.frv. Allt þetta hefur einn tilgang, að blekkja almenning, fyrst vegna þess að auðherrarnir þurfa ódýran vinnukraft og síðan fólk, sem getur keypt vörurnar, því kjarni og uppihald "fagurs lífs" er vörur, nóg af vörum, auglýsingabrallið er skýrasta dæmi þess.
Fólk verður sem sé að sækja vinnu sína í verksmiðjurnar og þjónustugreinar stórborgarinnar og þetta er forsenda örrar þróunar borga nútímans. En lífskjör almennings versna við það, að vísu smám saman, en jafnt og þétt.

●

Nú verður sagt frá, hvaða hlutverk húsbyggingar hafa í kapítalískri framleiðslu. Hús eru ein af þeim vörum, sem framleiddar eru í kapítalísku þjóðfélagi. En húsin lúta nokkuð öðrum lögmálum en flestar vörur. Húsbyggingar eru enn á frumstigi hvað snertir tæknivæðingu við gerð þeirra. Framleiðendur húsbygginga nota mikið af hreyfanlegu vinnuafli. Húsaframleiðsla dregst saman á krepputímum eins og t.d. á Íslandi í í dag. Þetta er ein þeirra greina, sem fyrst tekur að bera á atvinnuleysi í.
Stærri verksmiðjur, sem framleiða aðrar vörur, lúta ekki sömu lögmálum. Á krepputímum geta þær ekki dregið úr framleiðslunni, nema í mjög litlu magni, en ef í hart fer, fara þær á hausinn. Svo er ekki um byggingariðnaðinn. Hann hefur þann eiginleika, að geta fylgt nokkuð sveiflunum í atvinnulífinu, hann vex hratt á þenslutímum, en minnkar á krepputímum. Það er þess vegna mikilvægt fyrir auðherrana að halda byggingariðnaðinum á lágu stigi tæknivæðingar, sem einum af öryggisventlunum. Hann gegnir mikilvægu hlutverki við að skipa kapítalíska þjóðfélaginu öruggari sess.
Með þetta í huga er líka hægt að skilja af hverju það er alltaf húsnæðisskortur. Ef byggt yrði nóg af húsum, mundu húsbyggingar brátt vera í lágmarki, þær er þá ekki hægt að nota til að taka á móti kreppum, sem eru óhjákvæmilega í auðvaldsskipulaginu. Það er hægðarleikur einn að framleiða nóg af íbúðum, en það verður aldrei gert meðan lífdagar þessa skipulags eru ekki taldir.
Afleiðing húsnæðisskorts er há húsaleiga og dýr hús. Það er stundað húsnæðisbrask, fasteignaskrifstofur spretta upp, eitt sníkjudýr nútímans. Jafnframt því, sem byggingarframkvæmdir gegna mikilvægu hlutverki, eru þær höfuðverkur auðherranna. Hús eru farin að verða einstaklega endingargóð og traustbyggð, þau verða 100 ára og jafnvel eldri. Þess vegna eru gróðamöguleikarnir á þessu sviði takmarkaðir. Til þess að gera hús að vöru á borð við aðrar vörur þyrfti miklu hærra stig tæknivæðingar, þ.e. að framleiða hús í fjöldaframleiðslu í verksmiðjum, en það mundi aftur stangast á við það hlutverk sem byggingaiðnaðurinn á að gegna: að taka á móti sveiflum - og svo koll af kolli.

●



Þetta eru í stuttu máli helstu forsendur fyrir hröðum vexti þéttbýlisins á Íslandi í dag, ásamt nokkrum orðum um hlutverk húsbygginga í auðvaldsskipulaginu. Hér er um að ræða óumflýjanlegt lögmál þess þjóðfélags og verður ekki breytt fyrr það er afnumið.

# UMRÆÐUR

## LANDHELGISMÁLIÐ:

# Rétt eða rangt?

KFÍ/ML/KSML lætur líta svo út að samtökin hafi haft ranga stefnu t.d. í landhelgismálinu - en samt rétta grundvallarafstöðu til marx-lenínismans. Vegna sjálfsgagnrýni á röng atriði, hafi samtökin aldrei haft alvarlegri galla en rekja má til "lítillar þekkingar", "reynsluleysis", "lítilla tengsla við gamlar baráttuhefðir" o.fl. Hér er dæmi um stefnu KSML í einu aðalbaráttumáli íslenskrar alþýðu og verkalýðs: (úr Stéttabaráttunni)

Feb. 1972 - Borgarastéttin færir út einokunarsvæði sitt.

Maí 1972 - Um ógnun þjóðlegs sjálfsákvörðunarréttar Íslands er ekki að ræða í landhelgismálinu.

Apríl 1972 - Afstaða okkar .. er í samræmi við utanríkisstefnu Kína .. við takmörkum stuðning okkar við að styðja hinn þjóðlega rétt Íslendinga til útfærslunnar.

Mars 1973 - Með kröfunni um náttúruvernd á verkalýðurinn að hafa vit fyrir borgarastéttinni og vernda þannig sjálfstæða tilveru hennar og arðránsmöguleika.

Apríl 1973 - Landhelgisútfærslan er barátta borgarastéttarinnar fyrir auknum gróða. Verndun fiskimiða - óhugsandi í auðvaldsþjóðfélaginu.

Maí 1973 - Landhelgismálið sem barátta milli heimsvaldastefnu og alls þorra alþýðu..eru svik. Sjálfsákvörðunarrétturinn er óviðkomandi landhelgismálinu..baráttan stendur um niðurrif auðvaldsins og stofnun alræðis öreiganna.

Feb. 1974 - Vígorðin Ísland úr NATO - herinn burt eru ..andstæð alþjóðahyggjunni.

Ágúst 1974 - Grein um afstöðu Kína til landhelgismálsins, ekki orð um KSML.

Júní 1975 - Krafa um stuðning við 200 mílurnar frá Akureyri í umræðudálki Stéttabaráttunnar.

Okt. 1975 - Tillaga að ályktun stofnþings KFÍ/ML um heimsvaldastefnu - ekki orð um landhelgismálið.

Des. 1975 - Viðbót við tillöguna. Stuðningur við 200 mílna fiskveiðilögsögu og 200 mílna landhelgi.

Maí '73 - júní '75 - Ekki orð um landhelgismálið og KSML.

Sem sagt: 1972 - 73 er afstaða KSML greinilega alröng og glæpsamleg. Frá miðju ári '73 - ársloka 1975 er þögn ríkjandi í aðalatriðum. Í stefnuplaggi KFÍ/ML stendur hins vegar: "Þessi afstaða er svo leiðrétt þegar baráttan fyrir 200 mílunum hefst og þá tekin rétt afstaða". (bls.23)

Baráttan fyrir 200 mílunum hefst fyrri hluta árs 1975. EIK(m-l) studdi hana réttilega á réttum forsendum. KSML þagði. Rétt afstaða KSML verður til um áramótin 1975 -'76 á pappírnum. En skipulagning fjöldabaráttu í málinu er afstaða EIK(m-l) einna í ársbyrjun.

Félagar í KFÍ/ML, ber ofangreint vitni um að grundvöllur KSML hafi verið marx-lenínisminn?

KSML hafa nú stofnað flokk sinn - KFÍ/ML og sent frá sér stefnuyfirlýsingu. Í fréttatilkynningu EIK (m-l) um stofnunina segir að KFÍ/ML sé ekki marx-lenínískur kommúnistaflokkur og ekki stofnaður til framgangs marx-lenínismans á Íslandi. Nýi flokkurinn segir nú EIK(m-l) "berjast gegn flokki verkalýðsins", stunda "einangrunarstefnu", "skemmdarverkastarfsemi" og "rógsherferð" gegn flokknum. Allt stafar þetta af því að EIK(m-l) og Kommúnistasamtökin sameinuðust ekki um flokksstofnun. Hver er orsökin? Hún er höfuðatriðið. Hún er pólitísk og stefnuleg. Það er þetta sem skiptir höfuðmáli, ekki hneykslunaróp, þau eru hin sömu og Alþýðubandalagið viðhefur við KSML eða EIK(m-l), Alþýðuflokkurinn við Alþýðubandalagið o.s.frv.

Í nýútkomnu stefnuplaggi KFÍ/ML segir að ekki hafi getað orðið úr sameiningu EIK(m-l) og KSML vegna "slæmra starfsaðferða" EIK(m-l). Hvílíkt og annað eins - hvað er nú orðið um allan ágreininginn? En KFÍ/ML mun takast illa að fela sannleikann um undanfara flokksstofnunarinnar. Auk þess sem hér fer á eftir mun EIK(m-l) birta öll bréf samtakanna, er varða flokkinn, í RAUÐLIÐANUM - tímariti EIK(m-l).

# AFSTAÐA EIK(m-l):

## HINN NÝI FLOKKUR

1. Skilyrði flokksstofnunar

EIK(m-l) setti sem skilyrði að samtökin næðu grundvallareiningu í fræðikenningu marx-lenínismans, einingu varðandi skipulag flokksins og grundvöll baráttustefnu dagsins í aðalatriðum (samfylkingaraðferðina). Við þetta skyldi miða dagsetningu og undirbúning flokksstofnunar. Að auki skyldi flokkurinn hafa tengsl bið framsæknasta hluta verkalýðsins og sameina íslenska marx-lenínista við stofnun. KSML neitaði þessu og þar við sat. KSML miðaði ekki starf sitt við þetta, heldur eigin hag. Slíkt er og var hentistefna, andstæð lenínisma og réttri flokksbyggingu.

2. Saga KSML og EIK(m-l)

EIK(m-l) hafa aldrei viðurkennt KSML sem marx-lenínísk samtök. Í fyrsta lagi ráku KSML alranga baráttu stefnu í tæp þrjú ár (þau viðurkenna það). Slík samtök geta ekki haft rétta afstöðu til marx-lenínismans. Í öðru lagi telja samtökin sig einmitt hafa verið marx-lenínísk frá upphafi og EIK(m-l) þar með "klofningssamtök" (1975). Afstaða KSML til stéttanna, sjálfræðis landsins, samfylkingaraðferðarinnar o.s.frv., var alröng og "vinstri" endurskoðun á marxismanum. Réttlæti einhver þá endurskoðun á grundvallaratriðum sem "marxisma" er hann hentistefnumaður og endurskoðunarsinni hvaðr sem hann kann að segja annað, apa eftir öðrum eða finna út sjálfur. KFÍ/ML fetar í fótspor KSML og miðar EIK (m-l) afstöðu sína við það.

3. Samherjar og andstæðingar

Stéttgreining - þ.e. athugun á því hverjir eru samherjar verkalýðsins og hverjir ekki - er undirstaða langtíma- og skammtíma stefnu flokks. Fyrstu drög eru óhjákvæmilegur hluti stefnuskrár. Þau verða til við mat á baráttureynslu og beitingu marx-lenínismans á þjóðfélagsþróunina. EIK(m-l) og KFÍ/ML (KSML) voru og eru ósammála um hvað er verkalýður og hvað ekki - t.d. halda KSML þeirri firru fram að skrifstofuþrælar, afgreiðslufólk, fólk af tegund póstbera o.s.frv. (10-20þús. manns) séu ekki verkalýður. KFÍ/ML sleppir stéttgreiningu í stefnuskrá sinni. En að miða flokksstofnun við að ná samstöðu um nothæfa stéttgreiningu SEM EIK(m-l) RÆÐUR YFIR var "ekki mögulegt" skv. KSML. Nýi flokkurinn fjallar heldur hvergi um einokunarauðvaldið sem höfuðandstæðing verkalýðs og vinnandi alþýðu. Hann fjallar ekki um baráttuna gegn endurskoðunarstefnunni í eigin röðum eða utan þeirra í stefnuskránni. En bandalagi vinnandi alþýðu undir forystu verkalýðsins, sem "klofningssamtökin" EIK(m-l) stofnskrárbundu, er hampað sem grundvallaratriði KFÍ/ML.

Þessi þrjú atriði eru, voru og verða höfuðatriðin í baráttu EIK(m-l) fyrir sameiningu íslenskra marx-lenínista. Geri KFÍ/ML sjálfsgagnrýni og geri upp við hentistefnu og endurskoðunarstefnuna sem í þeim felst, nær marx-lenínisminn yfirhöndinni í samtökunum.

# Fylkingin á biðilsbuxum




Alþjóðasamband lýðræðissinnaðrar æsku (WFDY) heitir klúbbur nokkur sem stjórnað er af flokkum sem styðja kerfi undirokunar og arðráns í Sovétríkjunum.

Þar er stórum hópum æskufólks beitt til að fá "fjöldastuðning" við falsanir Kremlverja á marxismanum og heimsvaldastefnu. Meðal afreksverka WFDY er að styðja innrásina í Tékkóslóvakíu 1968 og ögranir Sovétmanna á landamærum Kína og Sovétríkjanna.

Öðru hverju heldur WFDY heimsþing. Þá er mikið um dýrðir og blygðunarlaus áróður um "frelsi, frið og framfarir" í Sovétríkjunum og fylgiríkjunum slær glýju í augu fólks.

Alþýðubandalagið er ákaflega hrifið af WFDY, en Fylkingin slær því þó við. Fylkingin er nefnilega aðili að WFDY og þiggur nú boð um að senda 5 manna sendinefnd á þing í Póllandi. "Baráttusamtök kommúnista" sóma sér áreiðanlega vel innan um hálf-fasísk samtök á borð við æskulýðssamtök tékkneska "kommúnistaflokksins" - enda lýsti Björn Arnórsson félagi Fylkingarinnar og Alþýðubandalagsins því yfir á liðsfundi herstöðvaandstæðinga, að rétt væri að "styðja innrás Sovét í Tékkóslóvakíu, að því marki sem hún verði ávinninga Októberbyltingarinnar". Allar byltingar hafa í raun feykt trotskistum úr augsýn, svo að það er alveg eins gott fyrir Fylkinguna að eiga góða að.

## frh af bls 6 Viðtal.....

ÞÁ: Ætli það sé ekki vegna þess að samfylking um alþýðumenningu er ekki tekin til starfa ennþá. Reyndar hefur aðeins borið á því að fólk beiti menningunni í þessum baráttumálum en það vantar samtök til að efla þá viðleitni. Framsækin alþýðumenning, sem örfar markvisst baráttufólks fyrir betra þjóðfélagi, hefur verið í mikilli lægð undanfarið og ég álít að samfylking um alþýðumenningu geti ráðið þar bót á.

sp.: Hvernig verður starfseminni háttað?

ÞÁ: Aðalstarfið verður unnið í hópum, sem taka fyrir ákveðin verkefni eða verksvið og vinna væntanlega að rannsóknum, gagnrýni og gerð tillaga til úrbóta og listsköpun, allt eftir efni og ástæðum. Síðan verður stjórn sem sér um nauðsynlega samræmingu og skipulagningu.

sp.: Hvað er svo framundan?

ÞÁ: Það er búið að gefa út fjölritaðan bækling með drögum að stefnuskrá fyrir samfylkinguna og greinagerð með henni. Nú þegar hefur hluti þess fólks, sem vann að gerð stefnuskrárdraganna, stofnað tvo starfshópa og verða stofnaðir fleiri þegar fleiri koma til starfa. Annar hópurinn mun fjalla um barnabækur, en hinn um tónlist og jafnframt munu þessir hópar vinna að því að undirbúa formlega stofnun samfylkingarinnar, sem á að gerast í haust.

Ég við hvetja alla þá, sem vilja vinna að framgangi framsækinnar alþýðumenningar að koma til starfa. Undirbúningshópurinn heldur fund á Bræðraborgarstíg 1 efstu hæð, þriðjugaginn 2o júlí kl 20.30. þangað eru allir velkomnir sem áhuga hafa

# VERKALÝÐSBLAÐIÐ

**Gerist Áskrifendur** GREIÐIÐ ÁSKRIFT
**sími - 35904** GÍRÓ 12200

## Baráttudagur

Samfylking allmargra samtaka, Baráttueining 1. maí, stóð fyrir kröfugöngu, útifundi og fundi í Háskólabíói 1. maí. Um 700 tóku þátt í kröfugöngu, 500 á útifundi og um 700 voru á fundi í Háskólabíói.

Ganga Baráttueiningar var næststærst, og fjöldi þátttakendanna sýnir að stefnugrundvöllur samfylkingarinnar á hljómgrunn meðal verkafólks og annarrar alþýðu, að stéttabaráttulínan stykrist á kostnað stéttasamvinnunnar.

Það fór ekki framhjá meinum að glisháttíð fulltrúaráðsins var uppburðarminni en oftast áður. Mjög fátt var á útifundinum á Lækjartorgi, miðað við undanfarin ár. Fólk andmælir stefnu ASÍ-forustunnar með því að sitja heima.

Rauð verkalýðseining trotskíistanna fékk milli 600 og 700 á göngu og svipað á útifund, sem er stórum minna en ár sem leið. RVEI var til skamms tíma eini valkosturinn gegn stéttasamvinnunni á 1. maí og út á það vinna trotskíistarnir. Klofnings- og tæringarstarfsemi trotskíista í alþýðubaráttunni hefur ekki verið afhjúpuð nóg og rækilega. Æ fleiri sjá þó hvers lags er eins og t.a.m. í Keflavíkurgöngunni.

Aðgerðir Baráttueiningar þennan dag var stórt skref fram á við. Höfuðkröfurnar í göngunni voru m.a. - Lífvænleg laun fyrir 40 stunda vinnuviku - Kvennabarátta er stéttabarátta - Gegn allri heimsvaldastefnu - Til baráttu fyrir sósíalísku Íslandi.

Innifundurinn í Háskólabíói tókst með ágætum.

Félagar nýstofnaðs flokks, KFÍ (m-l) urðu þó ekki til að auka eininguna innan Baráttueiningar á 1. maí. Þeir gerðu hvað þeir gátu til að auglýsa eigin flokk með því að leggja höfuðáherslu á áróður fyrir KFÍ(m-l) en ekki málum samfylkingarinnar, þ.e. eining skyldi ríkja útá við. Hvað grófast kom þessi"samfylkingaraðferð" þeirra fram í Háskólabíói. Með þessari auglýsingarstarfsemi braut KFÍ (m-l) gegn því, sem áhveðið hafði verið innan Baráttueiningar fyrir 1. maí, og skaðaði samfylkinguna. KFÍ (m-l) væri hollt að gaumgæfa samfylkingaraðferðir sínar betur. Aðspurðir kváðu þeir orðsök þessa framferðis vera fréttatilkynningu sem EIK(m-l) lét frá sér fara til fjölmiðla stuttu fyrir 1. maí, vegna stofnunar KFÍ(m-l). Þar kemur m.a. fram að EIK(m-l) telja KFÍ(m-l) ekki marx-lenínískan flokk. Þessi fréttatilkynning var Baráttueiningu algjörlega óviðkomandi auk þess sem þetta var yfirlýst mat EIK(m-l) á forvera KFÍ (m-l), KSML.

## erlendis ______

Danmörk: KFML systursamtök EIK(m-l) stóðu fyrir aðgerðum á 1. maí í Kaupmannahöfn og víðar. Í Kaupnannah. tóku um 2000 manns þátt í kröfugöngu, en 3500 á útifundi. Þessi þátttaka er margföld miðað við ár sem leið.

Svíþjóð: Samfylkingin Samstaða-Eining stóð fyrir aðgerðum á 78 stöðum. Í Stokkhólmi tóku 5500 þátt í aðgerðum samfylkingarinnar. Framsækir og fleiri í Svíþjóð sýndu allsstaðar síaukinn styrk.

Noregur: Yfir 22000 tóku þátt í göngu Faglegrar 1. maí fylkingar. Víða var ganga fylkingarinnar stærsta gangan t.a.m. í Oslo þar sem þátttakendur voru 10000. Í"ASÍ"göngu þar voru hins vegar aðeins 42oo.

Sigur Stéttabaráttunnar yfir stéttasamvinnunni þarlendri verður sífellt víðtækari.

Þó að spænska stjórnin hefði bannað allar mótmælaaðgerðir í landinu á 1. maí, tóku þúsundir þátt í kröfugöngum og útifundum. Í Barcelona t.a.m. tóku 3000 þátt í mótmælaaðgerðum og 27000 verkamenn fóru í verkfall.

Í Tyrklandi voru hundruð verkamanna og stúdenta skotnir þegar þeir voru að hengja upp 1. maí plaköt. Ekkert gat þó stoppað aðgerðirnar og í Istanbúl var rúm hálf milljón manna með í mótmælaaðgerðum.

1.maí rís hvarvetna á ný sem baráttudagur undir forystu marx-lenínista.

# Keflavíkurgangan og varnarliðið

Keflavíkurgangan 15.maí síðastliðinn var sú stærsta, sem orðið hefur enn. Vegna þessa og réttra kjörorða göngunnar verður að telja aðgerðina afar jákvæða og vel heppnaða. Í Reykjavík tóku um 10000-15000 manns þátt í göngu og/eða útifundinum. Höfuðkjörorðin voru: Ísland úr NATO - herinn burt - af öðrum má nefna: Full yfirráð yfir 200 mílunum - Gegn vígbúnaði heimsveldanna - Virk fjöldasamtök.






### Undirbúningur

Undirbúningur Keflavíkurgöngu var í höndum miðnefndar herstöðvarandstæðinga og sjálfboðaliða. Nokkrar deilur urðu varðandi ýmis málefni. Í fyrsta lagi var deilt um að hve miklu leyti mætti benda á nauðsyn baráttu gegn báðum risaveldunum, Bandaríkjunum og Sovétríkjunum, og drottnunarstefnu þeirra. Marx-lenínistar berjast fyrir því að herstöðvarbaráttan sé barátta gegn heimsyfirráðastefnu auðstétta USA og Sovét og hernaðarbandalögum þeirra, að ekki sé leitað til annars risaveldisins í baráttu gegn hinu og að samþykkt Stapa-ráðstefnu herstöðvarandstæðinga sé <u>í raun</u> notuð sem starfsgrundvöllur. Þar stendur m.a. að barátta gegn öllum hernaðarbandalögum og heimsveldum sé nauðsynleg. Trotskistar Fylkingarinnar stóðu gegn þessu og Alþýðubandalagsmenn vildu sumir ekki "blanda þessu saman". Í aðgerðinni voru engin kjörorð, sem tóku upp þessa óhjákvæmilegu baráttu, en einn ræðumanna í Rvk., Sigrún H. Þorgrímsdóttir gerði and-heimsvaldabaráttu gegn risaveldunum að umtalsefni. Í öðru lagi var deilt um hvort landhelgismálið skyldi tengt aðgerðinni eða ekki. Einu sjáanlegu andstæðingar vinnandi fólks í miðnefndinni voru talsmenn Fylkingarinnar. Þeir töldu alþýðukjörorð eins og "Enga samninga", "Full yfirráð yfir 200 mílum" o.fl. vera "afturhaldssinnuð og þjóðrembingsleg" og töldu slíkar kröfur í göngunni benda til að menn vildu versla með NATO-aðild og uppgjöf breska auðvaldsins - þiggja "málefnamiðlun" NATO o.s.frv.- jafnvel þótt krafan "Ísland úr NATO - herinn burt" hafi verið í forsæti. Í þriðja og síðasta lagi var deilt um "málfrelsi" einstakra samtaka í samfylkingu herstöðvarandstæðinga. Enn rak Fylkingin klofningsstefnu. Talsmenn hennar töldu Fylkinguna mega bera "and-heimsvaldasinnuð" kjörorð að eigin vild, jafnvel afmarka sig með fána samtakanna og vildu ekki láta meirihlutann "kúga minnihlutann til að ganga undir kjörorðum, sem hann ekki samþykkir" (land.h.). Marx-lenínistar berjast af alefli gegn sundrungsstarfsemi af þessari tegund. Samfylking um einstakt málefni er ekki sýnipallur fyrir einhver ein eða fleiri samtök, né heldur getur samfylkingin gengið framhjá venjulegri lýðræðislegri starfsemi, það sem einfaldur meirihluti ræður, verði ekki samkomulag.

### Moldvörpustarfsemi

Þegar svo miðnefnd samþykkti gegn atkvæðum beggja Fylkingarmanna einna að taka upp kjörorð um landhelgisbaráttuna, svo aðgerðin yrði ekki aumlegt fálm og gerðu samþykkt um að <u>ekki</u> mætti bera önnur vígorð en nefndin hefði samþykkt (ca.17 stk.) - gerði Fylkingin sér lítið fyrir og braut samþykktina, með því að "afmarka" klíku sína með rauðri fánaborg og koma með nokkrar"sérkröfur". Loks studdi Fylkingin ekki ávarp miðnefndar, heldur dreifði eiturgrænni sérútgáfu af NEISTA með árásum á samfylkingaraðila (m.a. Alþýðubandalagið) á útifundinum. EIK(m-l) lýsir afstöðu Fylkingarinnar ósamrýmanlega samfylkingarstarfi, andstætt herstöðvar- og NATO-baráttu og fordæmir hana.

### Framtíð baráttunnar

Ljóst er flestum að aðgerðinni 15.5. hefði átt að fylgja stofnun liðsmannasamtaka gegn her/NATO. Fylgja verður öldunni eftir, um það er fjallað annars staðar í blaðinu. Einu má ekki gleyma. Þjóðviljinn sagði í tilefni laugardagsins 15. maí, að varnarlið Íslands væri á varðskipunum. Þetta er alrangt. Hvað sem misjöfnum aðgerðum og þróttleysi Landhelgisgæslunnar, sem stofnunar, líður í fiskveiðideilunni, þá getur íslensk alþýða ekki treyst valdatækjum yfirstéttarinnar (t.d. lögreglu, her eða strandgæslu) í and-heimsvaldabaráttunni. Vinnandi menn Gæslunnar eru samherjar vorir, en ekki stofnunin sem slík. Alþýðan getur aðeins treyst á eigið afl í baráttu gegn ásælni eða innrás og forystan getur aðeins verið verkalýðsins ef vel á að fara. Vopnuð barátta er hörð raun, en ávallt sú eina færa þegar á reynir - vilji menn ekki skríða fyrir drottnaranum. Í styrjöld eða við tilraun til valdaráns á Íslandi er aðeins eitt varnarlið til - vinnandi alþýða Íslands undir eigin forystu, ekki ríkisins - og aðeins ein varnarleið - alþýðustríð. Í Vestur-Sahara býr 78 þús. manna þjóð, sem á í frelsisstríði við innrásarheri búna fullkomnustu tækjum. Þjóðfrelsisherinn telur 7500 manns og á allan stuðning íbúanna. Sigurinn er sem næst þeirra þegar þetta er ritað. Dæmin eru fleiri.

# 1. MAÍ



# Akureyri

Á Akureyri voru tveir aðilar sem stóðu fyrir aðgerðum á 1.maí.
BSL(Baráttusamtök launafólks)höfðu frumkvæði að aðgerðum "Baráttueiningar 76" - kröfugöngu og fundi í Alþýðuhúsinu. Verkalýðsfélög bæjarins voru með kröfugöngu og fund á Ráðhústorgi. Mikill munur var á þessum aðgerðum eins og aðilarnir sem að þeim stóð-u eru ólíkir.
Munurinn fólst í því að Baráttusamtökin halda uppi baráttustefnu í verkalýðsbaráttunni og í samtökunum er fólk sem vill stéttasamvinnuna feiga.
Stærstu verkalýðsfélög bæjarins eru aftur á móti ekki baráttusamtök og forustumenn þeirra halda á lofti svörtustu samvinnustefnu við atvinnurekendur til mikillar bölvunnar fyrir alþýðuna á Akureyri.

Það var því ólíkur blær yfir aðgerðum dagsins. Ganga verkalýðsfélaganna fór með stórri lúðrasveit fremst og miklum blæstri, en þar fyrir aftan töltu "verkalýðsforingjarnir og nokkrar sálir aðrar - alls um 5o manns. Á fundinum á eftir voru, auk 1. maí-ávarps haldnar þrjár langar ræður - svo innihaldslitlar að fundarmenn urðu aðeins 25 að tölu.
Forkólfarnir reyndu að kenna veðrinu um, sem var reyndar sæmilegt, svo útskýringin er önnur.

----------------

Aðgerðir Baráttueiningar 76 tókust nokkuð vel. Þó voru þær talsvert fámennari en aðgerðir Baráttueiningar í fyrra. Það verður m.a. að skoða út frá því að í fyrra tók Alþýðubandalagsfélag Akureyrar þátt í aðgerðunum, en ekki nú.

Eftir að AB hóf samninga viðræður við Baráttueiningu og virtist ætla að ganga saman, var látið ganga út bréf frá félagsfundi AB þar sem hvatt var til "samstöðu verkalýðsfélaganna" í bænum um aðgerðir á 1.maí og þar með gengið til bandalags við Björn Jónsson, Jón Helgason og þeirra Forysta Alþýðubandalagsfélags Akureyrar hefur við ýmis tækifæri kynnt sig sem fulltrúa vinstri andstöðu innan verkalýðshreyfingarinnar. Skrefið sem þarna var tekið sýndi þá litlu alvöru, sem þar er að baki.

Á fundinum og í göngunni ríkti góður baráttuandi - BSL hefur aftur eflt starfsemi sína í kringum 1. maí og sett markið hærra - línurnar í verkalýðshreyfingunni skýrast, og tíminn sem líður dæmir verkalýðsforystuna til meiri og meiri háðungar á hverju ári, er hún reynir að setja upp baráttusvip á alþjóðadegi verkalýðsins.